# Lærdóms Bók

í

evangelisk-kristilegum

Trúarbrøgdum

handa

Unglingum

Selst óinnbundin á 24 sk. í Silfurmynt.

Reykjavík, 1846.

Prentud í prentsmidju landsins, á kostnad stiptunarinnar,

af Helga prentara Helgasyni.

# Advaran
## til
# Kénnendanna.

---

1) Sérhver meining, hvert heldur hún er í Lærdóms- og Ritningar-greinum, ellegar í athugasemdum og útskýringum greinanna, á nákvæmlega og skilmerkilega ad útþýdast fyrir barninu, ádur enn þad lærir nokkud af þeim utanad.

2) Þegar börn verdast svo tornæm ad ei géti lært alla lærdómsbókina, þá eiga vidkomendur ad rádfæra sig vid sóknaprest sinn, og er þá undir hans áliti komid, hvert barnid á ad læra meir enn lærdómsgreinirnar, og þá biblíustadi sem vitnad er til og hjá standa. En þar sem þetta leifi kémur ei til, á barnid ad læra allt, eins smærra og stærra letrid.

4) Kénnendurnir eiga ad láta børnin leita ad þeim greinum i Bibliunni, sem til er visad, en þó ekki eru prentadar. Þar, sem mørg børn eru, eiga þeir ad láta þau lesa þær til skiptis og med stuttum spurningum útúr, koma þeim i skilníng um meiningúna.

5) Sérhver Lærdóms-grein i bókinni er svo skiljanlega samantekin og Atridis ordin adgreind, ad hægt er hverjum einum ad spyrja útúr þeim; þessvegna gjørist engin þørf ad prenta spurningarnar, einkum þar raunin er ólýgnust, ad opt og tidum hafa bædi Kénnendur og Lærendur minna þeinkt úti sannleikann vegna spurninganna.

---

# Sá litli Lúthers Katekismus.

---

## Þetta eru Tíu Laga-Bodord Guds.

---

### Fyrsta Bodord.

Eg er Drottinn Gud þinn, þú skalt ekki hafa annarlega Gudi fyrir mér.

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum yfir alla hluti fram, Gud ad óttast, hann ad elska, og á hann einn ad trúa.

### Annad Bodord.

Þú skalt ekki leggja nafn Drottins Guds þíns vid hégóma, því Drottinn mun ekki halda þann saklausann, sem brúkar hans nafn hégómlega.

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Engum eigum vér ills ad bidja i hans nafni, ekki sverja vid þad né fjølkingi fremja, ekki ljúga né svikja; heldur eigum vér Guds nafn ad ákalla i øllum vorum naudsynjum, þad ad tilbidja, lofa þad og þvi þakkir ad gjøra.

## Þridja Bodord.

Minnstú ad helga hvíldardaginn Drottins Guds þíns.

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Ad vér ekki fyrirlitum prédikunina né hans ord; heldur eigum vér þad heilagt ad halda, gjarnan heyra þad og læra.

## Fjórda Bodord.

Heidra skaltú Fødur þinn og Módur, svo þér vel vegni, og þú verdir lánglífur á jørdunni.

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Ad vér ekki fyrirlitum vora foreldra né þá, sem yfir oss eru bodnir, ekki þá til reidi reit-

unr; heldur þá í heidri hofum, þjónum þeim og hlýdnir séum, elskum þá og vyrding veitum.

## Fimta Bodord.

Þú skalt ekki mann deyda.

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Ad vér ekki meidum hold vors náúnga, eda gjørum honum mein í nokkru; heldur eigum vér honum ad bjarga og vidhjálpa í øllum hans lifs naudsynjum.

## Sjøtta Bodord.

Þú skalt ekki hórdóm drýgja.

Had er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Ad vér lifum hreinferduglega bædi í ordum og verkum, og ad hverr einn elski og í heidri hafi sína ekta-persónu.

## Sjøunda Bodord.

Þú skalt ekki stela.

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Ad vér ekki gripum góts eda peninga vors náúnga, eda med følskum kaupeyri eda und-

irhyggju undir oss drøgum; heldur eigum vér honum ad hjálpa, svo hans góts og uppheldi ávaxtist og vardveitist.

## Attunda Bodord.

**Þú skalt ekki bera falskann vitnisburd á móti þínum náúnga.**

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Ad vér ekki ránglega ljúgum nokkru á vorn náúnga, ekki svikjum, baktölum eda ófrægjum hann í nokkru; heldur eigum vér hann ad afsaka, allt gott um hann ad tala, og færa alla hluti til betra vegar.

## Níunda Bodord.

**Þú skalt ekki girnast hús náúnga þíns.**

Hvad er þad?

Þad er: vér eigum ad óttast og elska Gud. Ad vér ekki med flærd stundum eptir arfi edur fasteign vors náúnga, edur undir oss drøgum med yfirvarpi laga og réttinda; heldur eigum vér þar til ad hjálpa og styrkja, ad hann hafi sitt allt óskaddad.

## Tíunda Bodord.

**Þú skalt ekki girnast kvinnu náúnga þíns,**

ekki þjón né þjónustukvinnu, ekki uxa né asna, og ekkért það hans er.

Hvað er það?

Það er: vér eigum að óttast og elska Guð. Að vér ekki burt-tælum eða lokkum frá vorum náúnga, hans eigin-kvinnu, þjónustufólk eða kvikfé; heldur eigum vér að áminna og ráðleggja, að hverr og einn sé samt og ástundi að þjóna, það honum skyldugt er.

Hvað segir Guð um öll þessi Boðorð?

Hann segir svo í 2 Mós. b. 20, 5. 6. Eg er Drottinn þinn Guð, eg er vandlátur Guð, sem læt straff fyrir fedranna ránglæti koma fram á børnunum í þriðja og fjórða lið, það er að segja á þeim, sem mig hata; eg er líka sá, sem auðsýni miskunsemi í þúsund liðu á þeim, sem mig elska, og við þá, sem varðveita mín boðorð?

Hvað er það?

Það er: Guð hótar þeim øllum pínu, sem afvikja þessum hans Boðorðum; því eigum vér að óttast og hræðast hans straff, og ekkért að gjöra á móti hans Boðorðum, en þeim øllum, sem þessi hans Boðorð halda, lofar hann sinni náð, miskun og øllum góðum hlutum; þar fyrir eigum vér Guð að elska, trúa

honum og treysta, og eptir hans Bodordum gjarnan ad gjøra.

---

# Trúar-Játningin.

## Fyrsta Grein.

### Um Sköpunina.

Eg trúi á einn Gud, Fødur almáttugann, Skapara himins og jardar.

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi ad Gud hafi skapad mig, ásamt øllum ødrum sképnum, og ad hann hafi géfid mér ønd og líkama, augu og eyru, og alla limi, þar med skyn og skilningar-vit, og ad hann øllu þessu enn þá vid makt heldur. Hér til veitir hann mér og fyrirsjer nóglega, og daglega géfur hann mér klædi og skjædi, mat og drykk, hús og heimili, fødur og módur, akur og kvikfé og allt þad, sem gott er, med øllu því eg med þarf til þessa lífs uppheldis. Hann verndar mig og vardveitir frá øllum skada og háska og øllum ill-

um hlutum. Allt þetta gott veitir hann mér af sinni einskjærri, føðurlegri, guðlegri góðgirnd og miskun, án allrar minnar verðskuldunar. Fyrir hvað allt eg á honum þakkir að gjøra, honum þjóna og hlýðinn að vera. Þetta eru vissulega sannindi!

---

## Önnur Grein.

### Um Endurlausnina.

Eg trúi á Jesúm Krist, Son hans eingétinn Drottinn vorn, hverr eð gétinn var af heilögum Anda, fæddur af Maríu meyu, píndur undir Pontíó Pílató, krossfestur, deyddur og grafinn; niðursté hann til helvítis, en á þriðja degi reis hann upp frá dauðum, uppsté hann til himna, situr nú til Guðs Føðurs almáttugs hægri handar, og þaðan mun hann koma að dæma lifendur og dauða.

Hvað er það?

Það er: Eg trúi að Jesús Kristur sé sannur Guð, af Føðurnum gétinn fyrir allar aldir, líka sannur maður, fæddur af Maríu meyu; að hann sé minn Drottinn, sem mig glataðann og fyrirdæmdann mann hefir afrekað, endurleyst og frelsað frá øllum syndum, dauðanum

og djöfulsins valdi, ekki með gulli eða silfri, heldur með sínu heilaga, dýrmæta blóði, og sinni saklausu pínu og dauða, svo að eg sé hans eiginleg eign, lifi undir hans valdi í hans ríki, honum þjóni í eilífu réttlæti, meinleysi og sáluhjálp, líka sem hann er sjálfur af dauðanum upprisinn, lifir og ríkir að eilífu. Þetta eru vissuleg sannindi.

---

## Þriðja Grein.

### Um Helgunina.

Eg trúi á heilagann Anda, og að sé ein, heilög, almennileg, kristileg kirkja, sem er samnéyti heilagra, fyrirgéfning syndanna, holdsins upprisa og — eptir þetta líf — eilíft líf.

Hvað er það?

Það er: eg trúi að eg géti ekki af sjálfs míns eigin krapti eða skilningi trúað á Jesúm Krist minn Drottinn, eða til hans komist; heldur hefir heilagur Andi mig, með guðspjallanna kénningu, kallað og upplýst með sínum ástgjöfum, helgað mig og viðhaldið í réttri trú; líka sem hann alla aðra kristna

menn á jørdu, kallar, samansafnar, upplýsir, helgar, og í réttri trú á Jesúm Krist varðveitir; í hverri kristilegri kirkju hann náðarsamlega fyrirgéfur mér og øllum trúndum, daglega allar syndir, og á efsta degi mun hann uppvekja mig og alla menn af dauða, og géfa mér með øllum rétt-trúndum, fyrir Jesúm Krist, eilíft líf og sáluhjálp. **Þetta eru vissuleg sannindi!**

## Drottinleg Bæn.

Faðir vor, þú, sem ert á himnum!

Hvað er það?

Það er: Guð vill hér með tilleiða oss og lokka, að vér trúa skulum, að hann sé vor réttilegur Faðir, og vér hans sannarleg børn, svo vér þess heldur með fullu trúnaðartrausti megum hann biðja, eins og góð børn biðja sinn elskulegann føður.

## Fyrsta Bæn.

Helgist þitt nafn.

Hvad er þad?

Þad er: Guds nafn er sannarlega í sjálfu sér heilagt, þó vér bidjum ekki; en vér bidjum í þessari bæn, ad þad einnig helgist hér med oss.

Hvernig skédur þad?

Þegar Guds ord kénnist réttilega og hreinlega, og vér eptir því lifum heilaglega, eins og Guds bornum hæfir; þar til hjálpi oss vor elskulegi Fadir á himnum! en hverr, sem ødruvísi kénnir eda lifir, enn Guds ord býdur, sá vanhelgar Guds nafn á medal vor; þar frá vardveiti oss vor elskulegi himneski Fadir!

## Onnur Bæn.

Tilkomi þitt ríki.

Hvad er þad?

Þad er: Guds ríki kémur ad sonnu án vorrar bænar af sjálfu sér til; en vér bidjum í þessari bæn, ad þad einnig komi til vor.

Hvernig skédur þad?

Þegar Gud géfur oss sinn heilaga Anda, sá oss veitir þá nád, ad vér trúum hans heilaga ordi, lifum heilaglega hér stundlega, en annars heims eiliflega.

### Þridja Bæn.

Verdi þinn vilji, svo á jørdu, sem á himnum.

Hvad er þad?

Þad er: Guds gódur og nádugur vilji verdur á himnum, þó vér bidjum ekki; en vér bidjum í þessari bæn, ad hans vilji verdi hér á medal vor.

Hvernig skédur þad?

Þegar Gud ónýtir og hindrar øll ill rád og vondann vilja þeirra, sem því valda, ad Guds nafn vanhelgast og háns ríki náir ekki til vor ad koma, sem eru: djøfullinn, heimurinn og vor holdlegur vilji; heldur styrkir hann oss og stødnga gjørir í sínum ordum og í trúnni, allt til vorra æfiloka; þetta er hans miskunsamur og gódur vilji.

## Fjórda Bæn.

Géf oss í dag vort daglegt brauð.

Hvað er það?

Það er: Guð géfur að sönnu daglegt brauð, jafnvel vondum mönnum, þó vér biðjum ekki; en vér biðjum í þessari bæn, að hann láti oss vort daglegt brauð viðurkénna, og með þakklæti til vor meðtaka.

Hvað kallast daglegt brauð?

Það kallast allt það, sem nauðsynlegt er til lífs bjargar, sem er: matur og drykkur, klæði og skjæði, hús og heimili, töður og eingjar, kvikfénaður, góts og peníngar, góð ekta-persóna, hlýðin börn, dyggt þjónustufólk, trúir og frómir yfirmenn, góð almúgans stjórn, hagstæð veðurátt, friður, heilbrygði, siðsemi, heiður, góðir vinir, trúfastir nágrannar, og allt annað þessu líkt.

## Fimta Bæn.

Fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum.

Hvað er það?

Það er: vér biðjum í þessari bæn, að Fað-

ir vor himneskur vilji ekki álita vorar syndir, svo hann, fyri þeirra skuld, vilji ekki veita oss vora bæn — því vér erum allra þeirra hluta ómaklegir, sem vér hann umbidjum, og hofum þad ekki verdskuldad — heldur ad hann vilji oss þad allt géfa af sinni eiginlegu nád; því daglega syndgum vér, og verdskuldum ekki annad enn straff; svo viljum vér einnig þarámóti fyrirgéfa af hjarta þeim, sem oss á móti brjóta, og gjora þeim gott, sem vid oss misgjora.

## Sjotta Bæn.

Eigi leid þú oss í freistni.

Hvad er þad?

Þad er: Gud freistar ad sonnu einkis manns; en vér bidjum í þessari bæn, ad hann vilji vernda oss og vardveita frá andskotans, heimsins og holdsins vélum, svo vér hropum ekki fyrir þeirra tilteygingu i vantrú, orvæntingu edur adrar syndir og lesti; og þó vér freistumst af ollu þessu, þá láti hann oss um sidir yfirvinna og sigrinum halda.

## Sjöunda Bæn.

Heldur frelsa oss frá illu.

Hvad er þad?

Þad er: hér bidjum vér alls í einu í þessari bæn, ad Fadir vor himneskur frelsi oss frá öllu illu til lífs og sálar, farsældar og heidurs; en ad sídustu, þegar vor dauda-stund er komin, gefi hann oss gódann afgáng og taki oss miskunsamlega til sín, úr þessum eymdardal, inní himnaríki. Amen.

Hvad er þad?

Þad er: ad eg skal vera fullviss, ad þessar vorar bænir sén vorum himneska Födur þakknæmilegar og af honum heyrdar; því hann hefir sjálfur skipad, ad vér skyldum med þessum hætti bidja, og hefir lofad ad hann vilji oss bænheyra. Amen! Amen! þad er: já, sannarlega, þad skal svo vera.

# Skírnar Sakramentid.

1. Hvad er Skírn?

Skírnin er ekki einsamalt vatn, heldur er hún þad vatn, sem saman er reirt og bundid med Guds bodordi, og med Guds ordi samtengt.

2. Hvad er þad Guds ord?

Þad vor Herra Jesús Kristur sagdi hjá Matthæusi í 28da kapítula: Farid og gjörid allslags þjódir ad mínum Lærisveinum, og skírid þær til nafns Födurs og Sonar og heilags Anda,

3. Hvad útvegar Skírnin oss og veitir?

Hún útvegar oss og veitir fyrirgéfningu syndanna, frelsar oss frá daudanum og djöflinum, og géfur þeim öllum eilífa sáluhjálp, sem trúa því, er Guds ord og fyrirheit lofa.

4. Hver eru þau Guds ord og fyrirheit?

Þau vor Herra Jesús Kristur segir hjá Markúsi í 16da kapítula: Hverr, sem trú-

ir og verdur skírdur, sá mun hólpinn verda, en hverr, sem ekki trúir, sá mun fordæmast.

5. Hvernig fær vatnid verkad svo veglega hluti?

Vatnid má aldrei slíks orka, heldur veitir þad Guds orð — hvert ad er í og med vatninu — og trúin, hver ad slíkum Guds orðum í vatninu trúir; því fyrir utan Guds orð er vatnid einsamalt vatn en engin Skírn; en þegar Guds orð samlagast vatninu, þá er þad Skírn. Þad er náðarfullt lífsins vatn og endurgétningar laug í heilögum Anda, eins og Páll Postuli segir, í Sendibréfinu til Titusar, í 3ja kapitula.

Eptir sinni miskunsemi hefir Guð oss hólpna gjört, med endurgétníngar-lauginni og endurnýúnginni, sem skédur af heilögum Anda, hverjum hann hefir nóglega úthellt yfir oss fyrir Jesúm Krist vorn Lausnara, svo vér, réttlættir fyrir hans náð, yrdum erfíngjar eilífs lífs eptir voninni. — Þessi orð eru sönn og trúanleg.

6. Hvad merkir þvílík vatns Skírn?

Hún merkir þad: ad sá hinn gamli Adam í oss, á daglega ad drekkjast og deyd-

ast fyrir ydrun og yfirbót, med öllum synd-
um og vondum girndum, og sídan daglega
framkoma og upp aptur rísa nýr madur sá,
er lifa skal í réttlæti og heilagleika fyrir Gudi
æfinlega.

7. Hvar stendur þad skrifad?

Páll Postuli segir í Sendibréfinu til Róm-
verja 6ta Kapítula: Svo erum vér med Kristi
greftradir í skírninni til daudans, ad líka sem
Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd
Födursins, svo eigum vér ad gánga í nýu lif-
erni.

## Altaris Sakramentid.

1. Hvad er Sakrament Altarisins?

Altaris Sakramentid er sannarlegt
hold og blód Drottins vors Jesú Krists,
undir braudi og víni, af sjálfum Jesú
Kristi innsett, oss kristnum mönnum ad eta
og drekka.

2. Hvar stendur það skrifað?

Svo skrifa þeir heilögu Guðspjallamenn, Matthæus, Markús, Lúkas og Postulinn Páll.

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nóttu sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þakkir og braut það, og gaf sínum Lærisveinum og sagði: takið og etið, það er minn líkami, sem fyrir yður verður géfinn. Gjörið það í mína minníngu!

Sömuleiðis eptir Kvöldmáltíðina, tók hann kaleikinn, gjörði þakkir, gaf þeim hann og sagði: drekkið allir hér af, þetta er kaleikur ens Nýa Testamentis í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist til fyrirgéfníngar syndanna. Gjörið þetta, svo opt, sem þér það drekkið, í mína minníngu!

2. Hvad stodar oss med þvilikum hætti ad eta og drekka hér af?

Þad sýna mér þau ord, sem hér standa: **fyrir ydur géfst og úthellist til fyrirgéfningar syndanna**; þvi oss veitist fyrir þessi ord, i Sakramentinu, syndanna fyrirgéfning, eilift lif og sáluhjálp, þvi hvar syndanna fyrirgéfning er, þar er einnig lifid og sáluhjálpin.

4. Hvernig fær likamleg berging verkad svo mikla hluti?

Berging brauds og vins verkar þad i enganu máta, heldur ordin, sem hér standa: **fyrir ydur géfst og úthellist til fyrirgéfningar syndanna**; hver ord ad eru hjá likamlegri bergingu svo sem hofudstykki i þessu Sakramenti. Hverr, sem þessum ordum trúir, hann odlast allt þad, er þau innihalda og uppáhljóda, sem er syndanna fyrirgéfning.

5. Hverr neytir þessa Sakramentis maklega?

Ad fasta og sig líkamlega þar til ad búa, er ad sönnu góð ytri siðsemi; en sá er sannarlega maklegur og velskikkadur, sem trúir þessum Krists ordum: **fyrir ydur géfst og úthellist til fyrirgéfníngar syndanna.** En hverr, sem ekki trúir þessum ordum og efar þau, hann er ómaklegur; því þetta ordid: fyrir ydur, krefur fullkomlegrar trúar í hjartanu.





# Fyrsti Kapituli.

## Um Gud og hans Eiginlegleika.

---

### I. Hvernig vér fáum þekkíngu um Gud.

§. 1. Oss mønnunum rídur mjøg mikid á ad vér lærum ad þekkja Gud; þvi annars gætum vér ekki skilid, hvernig heimurinn er ordinn til; vér vissum þá ekki heldur hvers vér mættum vænta um vora hagi eptir daudann, og hefdum einga óbrigdula hjálp ad reida oss uppá i vorum mótgángi.

Merk: Þad eru kollud Trúarbrøgd, ad þekkja Gud og hans vilja, og med hverju móti vér eigum ad heidra hann og hlýda honum.

§. 2. Undir nafninu Heimur, skilst almennilega bædi Himin og Jord, med ollu þvi, sem i þeim er.

Merk: a) Auk Sólarinnar og Túnglsins, sjáum vér á himninum mikinn fjølda af Stjørnum. Medal þeirra eru nokkrar, sem kallast Plánetur, allteins kringlóttir hnettir eins og vor jord, og er

ekki ólíklegt, ad í þeim búi margskonar lifandi sképnur. En þær eiginlegu Stjørnur eru Sólir, eins og sú, sem skín næst oss, og upplýsa med sama hætti hnetti þá, sem þeim eru nálægastir. Túnglid er hnottur, eins og jørdin, sem fær, eins og hún, ljós sitt af sólunni.

b) Á jørdunni teljast hér um tuttugu og fimm þúsundir lifandi sképna af ýmsu kyni, auk mannanna, sem eru tals þúsund Milliónir — en hver ein Millión er sama sem þúsundsinnum þúsund. Adrar lifandi sképnur, sem til adgreiníngar frá mønnunum, kallast skynlausar og mállausar, skiptast i: dýr, fugla, fiska, orma, skorkvikindi og þær sképnur, sem lifa bædi í vatni og á landi. Sérhver af kynferdum þessum inniheldur margskonar tegundir, sem eru hver annari ólíkar.

§. 3 a) Hverr, sem vill gæta skynsemi sinnar, á hægt med ad þekkja, ad Heimurinn hefir ekki gétad ordid til af sjálfum sér, heldur enn hús nokkurt eda þorp hafi gétad byggt sig sjálft; því eingin sá hlutur er til, sem ekki hefir haft sína orsøk, af hverri hann er kominn.

b) Heimurinn hefir ekki gétad verid til frá eilífd; því vér sjáum, ad allir hlutir eru umbreytanlegir, og bædi menn og sképnur, ásamt ødru fleiru, hafa upphaf og endir.

§. 4. Frá eilífd hlýtur ad hafa verid ein ædsta Vera, sem skapad hefir heim-inn, eda rádid fyrir upptökum hans og nid-urrödun. Þessi Vera kallast Gud, og þessi Gud hlýtur ad vera sá allra vísasti, máttugasti og gædskuríkasti, því þeim mörgu og marghättudu hlutum, sem eru í heiminum, er svo vísdómslega nidurradad, og allir eru þeir mjög nytsamlegir.

§. 5. Gud þekkist ljósast af sínu ordi, hvert lesa má í þeirri heilögu Ritningu, sem kallast Biblía.

§. 6. Þad er víst, ad þann Guds vilja, sem manneskjurnar áhrærir, er ad finna í Biblíunni, og þess vegna kallast hún Guds ord; því hún kénnir oss fullkomlega og aug-ljóslega allt þad, sem syndug manneskja þarf ad vita sér til endurbótar, huggunar og sannr-ar velferdar, bædi í þessu og því tilkomanda lífi.

§. 7. Gud hefir sjálfur stadfest sitt ord med því, ad hann hefir géfid þeim mönn-um, sem þad hafa ritad, bædi speki til ad aug-lýsa þá hluti, sem einginn madur gat vitad af sjálfum sér, og líka krapta til ad fram-kvæma þau verk, sem einginn hefdi gétad gjört med neinslags náttúrlegum medölum.

Merk: a) Í heilagri Ritningu finnast þeir Spádómar, sem fyrirsegja markverda tilburdi, er eingin manneskja gat á þeim tímum fyrirfram sjed, sem þó laungu þar eptir eru í ítrasta máta uppfylltir. Gud einn, sem er alvitur, gat veitt þessum heilögu mönnum þekkingu um þvílíka atburdi. Es. 21, 1—10. 44, 21—28. Jer. 31, 31—40. 50, 1—46. Dan. 9, 20—27. Matth. 24, 1—28.

b) Í heilagri Ritningu er talad um kraptaverk, sem eru þvílík yfirnáttúrleg verk, ad þau útheimta guddómlegann krapt, þar ekki var mögulegt ad gjöra þau á þvílíkann hátt med náttúrunnar kroptum. Gud, sem er almáttugur, hefir einúngis brúkad þá heilögu menn til ad gjöra þvílík dásemdarverk. 2 Mós. b. 14. 21—30. Matth. 8, 7—15. Jóh. 2, 1—11. 6, 1—15. 9, 1—38. 11, 17—53. Post. G. b. 3, 2—8.

§. 8. a) Þeir menn, sem undir Guds stjórnun, og med hans adstod, hafa skrifad þá heilögu Ritníngu, kallast yfir höfud ad tala: Spámenn, Gudspjallamenn og Postular.

b) Spámennirnir, Gudspjallamennirnir og Postularnir, vóru útvaldir af Gudi til ad vera hans sendibodar medal manneskjanna, hverjum þeir áttu ad kunngjöra hans vilja, og framkvæma hans ásetníng, á þeim stad og tíma, sem hans speki áleit ad vera þénanlegast.

§. 9. a) Spámennirnir hafa skrifad

þann hluta Ritníngarinnar, sem kallast: Gamla Testamentid, ádur enn Kristur fæddist.

b) Gamla Testamentid inniheldur ýmislegar bækur, í hverjum Guds vilji var auglýstur Gydíngum, þeirri þjód, sem Messías, heimsins Lausnari, átti eiga ad rekja kyn sitt til; en þessar bækur eru enn þá í mörgum greinum, nytsamlegar handa oss, og þénanlegar til lærdóms, huggunar og vidvörunar.

Merk: a) Bækur Gamla Testamentisins eru eptirfylgjandi: fimm bækur Mósis, Jósúa bók, Dómara bókin, Rúths bók, fyrri og sídari Samúelis bók, fyrri og sídari Konúnganna bók, fyrri og sídari Kroniku bók, Esdra bók, Nehemiæ bók, Esters bók, Jobs bók, Davids Saltari, Salómons Ordskvidir, Prédikarans bók og Lofkvædid. Fjórir stærri Spámennirnir: Esajas, Jeremias, med hans Harmagráti, Ezekiel og Daniel. Tólf smærri Spámennirnir: Hóseas, Jóel, Amos, Obadias, Jónas, Mikkeas, Nahúm, Habakuk, Zephonias, Haggeus, Sakkarias, Malakias.

b) Kristur hefir stadfest, ad bækur Gamla Testamentisins séu af Gudi, Lúk. 24, 25. 27, 44; og á Krists tídum vóru allar þessar bækur samansafnadar í Gamla Testamentinu, sem enn eru þar.

§. 10. a) Gudspjallamennirnir og Postularnir, hafa skrifad þann hluta Ritníngar-

innar, sem kallast: Nýa Testamentid, eptir ad Kristur fæddist.

b) Nýa Testamentid inniheldur í ýmislegum bókum allt þad, sem Gud hefir viljad augljóst gjora fyrir øllum heiminum, um syndaranna endurlausn vegna Krists, trúna, Guds ótta og dygdina, sem útheimtist til sáluhjálpar.

Merk: a) Nýa Testamentisins Bækur eru eptirfylgjandi: fjøgur Gudspjoll, nefnil. Matthæusar, Markúsar, Lúkasar og Jóhannesar; Postulanna Gjørningabók; 14 Páls Sendibréf, sem eru: eitt til Rómverja, tvo til Korinthumanna, eitt til Galatiumanna, eitt til Ephesusmanna, eitt til Philippimanna, eitt til Kólossumanna, tvo til Thessalonikumanna, tvo til Timótheusar, eitt til Titusar, eitt til Philemons, eitt til enna Hebresku; Jakobs Pistill, tvo bréf Péturs, þrjú bréf Jóhannesar, Júdasar bréf og Jóhannesar Opinberingar bók.

b) Kristur hefir med sínum kraptaverkum sannad, ad hann væri sendur af Gudi, og med sama hætti er trúverdugleiki Gudspjallamannanna og Postulanna stadfestur, Jóh. 10, 37. 38. 14, 10. 11. Post. G. b. 3, 1—16. Skrif hinna elstu kristinna Lærifedra innihalda þá vitnisburdi, sem gjøra augljóst, ad Gudspjallamennirnir og Postularnir, hafi skrifad þær Nýa Testamentisins bækur, sem þeim eru eignadar.

§. 11. Eptir sérlegasta inntakinu

skiptist Guds ord í: Lögmálid og Evangelium.

a) Í Lögmálinu sýnir Gud oss þad illa, sem vér eigum ad fordast, og þad góda, sem vér eigum ad ástunda; þad leidir oss einnig fyrir sjónir, straff fyrir hid illa, til vidvörunar, og umbun fyrir hid góda, til upporfunar.

b) Evangelíum inniheldur Guds loford, um syndanna fyrirgéfningu og sáluhjálp vegna Jesú Krists, hverr ed endurleysti heiminn med sinni pínu og dauda; auk þessa kénnir þad oss, eptir hverri röd og reglu, og med hverju móti vér gétum ordid hluttakandi í fyrirgéfningu syndanna, og þeirri sáluhjálp sem Kristur hefir oss útvegad.

Merk: Í fyrsta parti frædanna er talad um Lögmálid, sem inniheldur Guds tíu Bodord; en Evangelíum er í fjórum sídari pörtunum, sem innihalda þrjár greinir trúarinnar, sjö bænir í Fadir vor; ásamt med Skírnar- og Altaris-Sakramentunum.

---

II. Hvad Ritningin kénnir oss um Gud, yfir höfud ad tala.

§. 1. Heimsins Skapari er sá einasti sanni Gud, og einginn nema hann.

Es. 45, 18. Svo svo sagdi Drottinn, sá ed

himininn hefir skapad, sá Gud, sem jørdina hefir tilbúid: eg em Drottinn, og einginn annar Gud er til, nema eg.

1 Cor. 8, 4. Vér vitum, ad skurdgod heidíngjanna eru ekkért, og einginn annar Gud er til, nema sá eini.

Merk: a) Heidingjarnir dýrkudu marga hjágudi, og leitudu stundum til eins, stundum til annars, en gátu samt ekki vitad, til hvers af þeim þeir helst skyldu snúa sér, med vissustu von um hjálp og adstod.

b) Vér høfum orsøk til ad álita sjálfa oss lángtum sælli, þar vér þekkjum sannann Gud, og vitum ad hann er einn einasti; þar fyrir leitum vér hælis hjá honum einum, og setjum vort traust og athvarf til hans, i øllum vorum naudsynjum.

## §. 2. Ritníngin kénnir oss ad þekkja þann einasta sanna Gud, sem Fødur, Son og heilagann Anda, og tileinkar bædi Fødur, Syni og heiløgum Anda, þá einu og sømu guddómlegu veru, i hverri þeir eru óadgreinanlega sameinadir hverr med ødrum, med þeim hætti, sem vér fáum ekki skilid.

Matth. 28, 19. Jesús býdur sínum Lærisveinum: Farid og gjørid allar þjódir ad minum Lærisveinum, og skírid þær til nafns Fødursins, Sonarins og þess heilaga Anda.

Jóh. 15, 26. Jesús, svo sem eingétinn Sonur Fødursins, segir: Æn þá er sá Huggarinn kémur, hvern eg mun senda ydur frá Fød-

urnum, sá sannleiksins Andi, sem af Fødurnum framgeingur, hann mun vitna um mig. 2 Cor. 13, 13.

Merk: Það er orðið að venju meðal kristinna manna, að kalla Guð þrennann eða þríeinann, til að sýna þar með, að Faðir, Sonur og heilagur Andi hafi einn og sama allrahæsta Guðdóm sameiginlega hverr með øðrum. Jóh. 10, 30. 16, 15. Matth. 3, 16, 17. Jóh. 14, 16.

**§. 3. Faðir, Sonur og heilagur Andi, eru jafnt hluttakandi í þeirri sømu eilífð, mætti, gæðsku og speki; þeir hafa eina og sømu sameiginlega dýrð.**

Jóh. 5, 19—22. Jesús segir: Hvað helst Faðirinn gjørir, það sama gjørir Sonurinn eins; því svo sem Faðirinn uppvekur dauða og gjørir lifandi, svo lífgar og Sonurinn allteins, hverja sem hann vill, svo að allir skuli heiðra Soninn, eins og þeir heiðra Føðurinn. Líka svo játar sjálfur Jesús, Jóh. 17, 5. að hann hafi verið í dýrð hjá Føðurnum, áður enn heimurinn var til. Jóh. 1, 1—3. 14. Róm. 9, 5. Hebr. 1, 3.

1 Cor. 2, 10. 11. Postulinn Páll segir um heilagann Anda: Guð hefir látið sinn Anda opinbera oss sín vísdómsfullu ráð, því Andinn ransakar alla hluti, og jafnvel Guðs leyndaráð; en hver manneskjanna er sú, er viti hvað í manninum er, nema mannsins andi, sem í honum er? svo líka veit einginn hvað í Guði

er, nema Guds Andi. Med líkum hætti sýnir og Postulinn, ad Þad hafi verid sá heilagi Andi, sem útdeildi yfirnáttúrlegum nádargáfum í hinni fyrstu kristni, hvar á medal hann einnig telur makt til ad gjøra kraptaverk; og sídan segir hann, 1 Cor. 12, 4—11: Æn allt Þetta verkar krøptuglega sá eini og sami Andi, er útskiptir sérhverjum útaf fyri sig, eptir Því sem hann vill. Post. Gb. 5, 3. 4. 1 Cor. 3, 16.

Merk: a) Þad er sannarleg og mikilvæg huggun fyrir oss, ad vér vitum, ad Sonurinn, Jesús Kristur, sem hefir kénnt oss hverju vér eigum ad trúa, og endurleyst oss med sinni pínu og dauda, er sannur Gud, ásamt med Fødurnum, Því vegna Þess kunnum vér, med fullri sannfæringu, ad reida oss uppá hann, og fylgja honum í øllu med stadføstu trúnadartrausti, líka og án efablendni tilbidja hann.

b) Oss er Þad mikilsverdt, ad vér vitum, ad sá heilagi Andi, sem med Guds ordi verkar til vorrar upplýsingar og endurbótar, er sannur Gud, ásamt med Fødurnum og Syninum; Því Þess vegna erum vér nú fullvissir um, ad vor betran er moguleg, ef vér færum oss Guds ord réttilega til nota, og eingin vantrú eda efasemi gétur haldid oss frá, ad tilbidja heilagann Anda, med sáma trúnadartrausti, sem Fødurinn og Soninn.

## III. Hvad Ritníngin kénnir oss um Guds veru og eiginlegleika.

§. 1. **Gud er Andi,** edur ósýnileg Vera, sem hefir ad sønnu frjálsrædi og skynsemi, en eingann líkama edur limi; þess vegna gétum vér ekki sjed hann med líkamlegum augum, ekki heldur útmálad hann med neinni mind.

Jóh. 4, 24. Gud er andi, því eiga þeir, sem tilbidja hann, ad gjøra þad med réttum Anda, 1 Tím. 1, 17.

Merk: Gud dýrkast og vegsamast best med hreinum þaunkum og rádvøndum lifnadi, því þesskonar dýrkun á best vid þann Gud, sem er Andi.

§. 2. Gud er **eilífur,** og hefir hverki upphaf né endir; hann er ætíd **óumbreytanlegur, og verdur jafnan hinn sami.**

Ps. 90, 2. Adur enn fjøllin vóru til, og þú tilbjóst jørdina, ertú Gud, og þad frá eilífd til eilífdar. Ps. 102, 27. 28.

Jak. 1, 17. Hjá Fødur ljósanna er eingin umbreyting, né umbreytíngar skuggi.

Merk: Gud, sem er eilífur, óumbreytanlegur, gétur þess vegna gjort þá eilíflega sæla, sem elska hann og hlýda honum. Hans makt þar til rénar aldrei, ekki heldur umbreytir hann sinum ásetningi og loforđum.

§. 3. Guð er **almáttugur**, og gétur gjört allt hvað hann vill, án ómaks eður fyrirhafnar, en hann gjörir ekkért annað enn það, sem er vísdómsfullt og gott, því hann vill ekkért nema það einúngis.

Ps. 115, 3. Vor Guð er í himninum, hann gjörir allt hvað honum gott þykir. Psálm. 135, 6.

Jer. 32, 17—19. O Drottinn! Drottinn! sjá, þú gjørðir himin og jørð með þínum mikla krapti; einginn hlutur mistekst fyrir þér, þú, hinn voldugi Guð! mikill í ráðum, og mektugur í athøfnum.

Merk: Vér meigum óhultir treysta á hjálp og verndan þess almáttuga Guðs í øllum vorum réttilegum athøfnum, því hann vantar hverki veldi né krapta til að vernda oss. En hann er líka máttugur til að straffa þá að makleglcikum, sem eru honum óhlýðnir.

§. 4. Guð er **alvís**, og veit allt í einu, bæði það, sem skéð hefir, það, sem nú skéður, og það, sem á allri ókominni tíð mun ské. Vorir heimuglegustu þánkar eru ekki huldir fyrir honum.

1 Jóh. 3, 20. Guð þekkir alla hluti.

Ps. 139, 1—3. Drottinn! þú ransakar og þekkir mig; þú skynjar mínar hugrenníngar álengdar; þú sjer gjørla allar mínar athafnir.

Merk: Það væri mesta heimska, að ætla sér að hræsna fyrir Guði, sem veit allt, og verð=

ur ekki á tálar dreiginu með útvortis yfirhylmingu. Hann veit hvert heldur er, hvað illt eða gott vér hugsum, tölum eða gjörum, jafnvel þó eingin manneskja verði nokkurntíma áskinja þar um.

§. 5. Guð er **alvitur**, og hefir ætíð þann besta tilgáng í sínum ásetningi, og velur líka jafnan bestu meðöl til að koma honum fram.

Ps. 104, 24. Drottinn! hversu mörg eru þín verk, þú gjördir þau öll með vísdómi. Job. 12, 13.

Merk: Vér meigum óhult trúa því, að hinn alvitri Guð gjörir ekkért, án þess það sé nytsamlegt; og að allt hvað fram við oss kémur, eptir hans vilja, horfir oss til gagns og góða.

§. 6. Guð er **allstaðar nálægur**, og verkar með sínum krapti allstaðar í öllum hlutum. Hann er hvergi fjarlægur sínum sképnum.

Ps. 139, 7. 8. Hvert skal eg fara frá þínum Anda, Drottinn! hvert gét eg flúið, svo þú sjáir mig ekki? Þó eg færi upp í himininn, þá ertú þar, og þó eg byggi mér legurúm í undirdjúpinu, þá ertú einnig þar. Jer. 23, 24.

Merk: Hinn guðhræddi má vera með góðu gédi í öllum sínum mótgángi, því Drottinn yfirgéfur hann aldrei, heldur varðveitir hann. En sá óguðhræddi hefir orsök til að skélfast,

jafnvel í leynilegustu fylsnum, því hann gétur hvergi umflúid Drottinn, sinn Dómara.

§. 7. Gud er **gódur**, og audsýnir sínum skopudum sképnum svo margar velgjørdir, sem hver þeirra gétur í móti tekid, eptir þeirra edli, lífernis máta, eda útvortis ásigkomulagi

Ps. 145, 9. Drottinn er øllum gódur, og hann miskunar sig yfir øll sín verk.

Post. Gb. 14, 17. Gud hefir ekki látid sjálfann sig vera án vitnisburdar, þar hann veitti oss mikid gott, og gaf oss døgg af himni og frjóffamar árstídir.

Merk: Oss byrjar med sannarlegu þakklæti, ad vidurkénna eins þær smærri, sem hinar stærri Guds gáfur, og aldrei kvída fyrir, ad hann muni synja oss þess, sem hann sjer ad oss er þénanlegt.

§. 8. Gud er **miskunsamur**, og fús til ad veita oss hugsvølun í vorum hormúngum, og frelsa oss frá þeim á þeirri tíd, og med þeim hætti, sem hann sjer oss hagkvæmast, allt eptir því, sem vor velferd útkrefur.

Ps. 103, 13. Eins og fadirinn er børnunum líknsamur, eins er Drottinn miskunsamur þeim, er hann óttast. 2 Cor. 1, 3.

Merk: J øllum vorum mótgángi meigum vér med von og trausti leita hælis hjá miskunsømum Gudi, og hverki reida oss uppá vorn

eigin visdóm, né mannanna adstod, sem opt kann ad bregdast.

§. 9. Gud er heilagur, sem ætíd elskar þad góda, en hefir stærstu misþókunn á øllu því, sem illt er.

Ps. 5, 5. Drottinn! þú ert ekki sá Gud, hverjum ógudlegt athæfi líkar; hverr, sem er vondur, fær ekki ad vera hjá þér.

1 Pét. 1, 15. Eins og sá er heilagur, sem ydur hefir kallad, svo verid þér og einnig heilagir í øllu ydar dagfari.

Merk: Vér eigum med varkárni ad fordast allt, sem illt er, því þad er Gudi á móti. En vér eigum ad ástunda sannann Guds ótta, ef vér viljum ad honum liki vid oss, og hann sé oss jafnan nádugur.

§. 10. Gud er réttlátur, og geingur ríkt eptir, ad lifad sé eptir hans bodordum, hver ad øllu leiti horfa til vorrar nytsemdar; þess vegna vill hann umbuna einúngis þeim, sem hlýda honum, en straffa þá, sem honum eru óhlýdnir.

2 Mós. b. 20, 5. 6. Eg er Drottinn þinn Gud, eg er vandlátur Gud, sem læt straff fyrir fedranna ránglæti, koma fram á børnunum í þridja og fjórda lid, — þad er ad segja — á þeim, sem mig hata. Eg er líka sá, sem audsýni miskunsemi í þúsund lidu á þeim, sem mig elska, og vid þá, sem vardveita mín bodord.

Róm 2, 9. Guð mun gjalda einum og sérhverjum eptir hans verkum.

Merk: a) Það er mikil heimska, að hugsa Guð muni sjá í gégnum fíngur við oss, hversu leingi, sem vér áfram höldum í syndunum; því hans réttlæti útheimtir, að hann straffi það vonda, öðrum til skélfingar og viðvörunar, svo að manneskjurnar leiðist ekki til lasta og ódygða af vondra eptirdæmum.

b) Með því Guði sýnist ekki þénanlegt, að straffa ætíð eður launa, eptir sérhvers verðugleikum, í þessu lífi, þá dregur hann opt hverttveggja undan til þess í öðru lífi, hvar bæði sá ógudlegi, og líka hinn guðhræddi, úttaka hverr uppá sinn máta, sín verkalaun.

§. 11. Guð er sannorður, og dregur oss aldrei á tálar með neinu falsi; hann er trúr, og heitir hverki né lofar öðru enn því, er hann bæði kann og vill efna.

4 Mós. b. 23, 19. Guð er ekki eins og manneskjan, að hann ljúgi, ekki heldur eins og manneskjunnar barn, að hann sjái sig um hönd.

Ps. 33, 4. Drottins orð er sannarlegt, og hverju sem hann lofar, það efnir hann vissulega.

Merk: Oss er það nóg til trúarstyrkingar, að vér vitum hvað Guð hefir látið oss kunngjöra í sínu orði, og það eigum vér að halda fyrir satt, án nokkurrar efasemi.

# Annar Kapituli.

## Um Guds Verk.

---

§. 1. **Gud hefir í upphafi skapad himin og jørd af eingu,** alleina med sinu almætti, til gagns og gledi handa øllum sinum lifandi sképnum.

1 Mós, b. 1, 1. J øndverdu skapadi Gud himin og jørd. Ps. 115, 15. Es. 40, 26.

Ps. 33, 8. Hann taladi, þá skédi þad; hann baud, þá stód þad þar.

Merk: Gud hefir med skøpuninni svo dásamlega opinberad sitt almætti, speki og gædsku, ad sérhverr, sem med alvarlegu athygli gefur gætur ad heiminum, hlýtur þar af ad upþørfast til ad heidra og vegsama Gud, og þakka honum.

§. 2. **Þegar Gud hafdi á sex døgum lokid skøpunarverkinu,** og gjørt jørdina byggilega handa øllum lifandi sképnum, hvíldist hann edur **hætti ad skapa,** á hinum sjøunda deginum.

2 Mós. b. 20, 11. A sex døgum gjørdi Gud himin og jørd, og hafid og allt, sem í þeim er, en hvíldist á hinum sjøunda degi. Ps. 104.

Merk: Sjøundi dagurinn, sem er sá sidasti i vikunni, var, ad Guds bodi, heilagur haldinn hjá Gydingum, til þakklætis minningar um heimsins

sköpun; þar á mót eigum vér, kristnir menn, ad halda heilagann fyrsta daginn í vikunni, til þakklátrar endurminningar um Jesú Krists upprisu.

§. 3. Á sjötta degi vikunnar skapadi Gud hinn fyrsta karlmann, er hét Adam, af moldu, og hina fyrstu konu, sem kalladist Eva, af mannsins sídu. Bædi þau samteingdi Gud í hjúskap, til ad auka kyn þeirra, og ad hvert fyrir sig skyldi stunda annars velferd.

1 Mós. b. 1, 28. Gud skapadi karlmann og kvennmann, blessadi þau og sagdi: aukist þid og margfaldist, og uppfyllid jördina.

Post. Gb. 17, 26. Drottinn hefir gjört, ad allar mannanna kynkvíslir búa á öllum jardarhnettinum af einum ættstofni.

Merk: Þad er vidurkvæmilegt ad allir vér, án alls greinarmunar, berum umhyggju hverr fyrir ödrum, og elskum hverr annann, eins og börn af sama foreldri; þar vér allir játum, ad Adam og Eva hafi verid vorir fyrstu foreldrar.

§. 4. Medal hinna sýnilegu Guds skepna á jördunni, er madurinn hin ypparlegasta. Hann er gæddur med skynsemdarfullri sálu í hentugum líkama handa henni; hann er og svo settur af Gudi til ad ráda yfir öllum ödrum dýrum.

Préd. 12, 7. Moldin hlýtur ad hverfa til jardarinnar aptur, hvar hún ádur var; en andinn til Guds, sem gaf hann.

1 Mós. b. 1, 28. Gud sagdi til vorra fyrstu foreldra: Gjørid ydur jørdina undirgéfna, og drottnid yfir fiskunum í sjónum og fuglunum í loptinu, og yfir øllum dýrum, sem hræraft á jørdunni.

Merk: Manneskjurnar hafa þad mikla fram yfir dýrin, ad þær géta þeinkt, talad og breytt, eptir skynsamlegri umþeinkíngu; en med þess meiri athygli eigum vér ad gæta vor, svo vér ekki vanbrúkum þessa stóru yfirburdi á móti Guds vilja, sjálfum oss edur ødrum til skada.

§. 5. **Líkami mannsins er svo hagkvæmlega tilbúinn, ad bædi gétum vér unnid þad, sem nytsamlegt er, med limanna brúkun, og líka notid stórrar ánægju med skilníngarvitunum, hver ad eru: sjón, heyrn, ylman, smekkur og tilfinníng.**

1 Mós. b. 2, 15. Drottinn Gud setti Adám í aldingardinn Eden, til ad yrkja hann og vakta.

Ephes. 4, 28. Postulinn Páll útheimtir: ad vér skulum erfida, og vinna oss inn eitthvad þarft, svo vér høfum nokkud til ad géfa þeim, sem medþurfa.

Merk: a) Vér erum allir skapadir til ad erfida, því má einginn eyda sinni tíd í ydjuleysi.

b) Þegar vér njótum einnar edur annarar ánægju med skilningarvitunum, þá eigum vér ætíd vandlega ad gæta hófs í hverjum hlut, en fordast alla vanbrúkun, svo Guds gædska verdi oss ekki til fordjörfunar, af sjálfskapar vitum.

§. 6. **Sálin er sá mannsin's partur, sem þeinkir og ályktar. Hún er ódaudlegur andi, gædd med skynsemi, til ad þekkja hvad rétt er eda rángt, og med frjálsrædi, til ad velja hvert heldur gott edur illt.**

Matth. 10, 28. Jesús sagdi: Hrædist ekki þá, sem líkamann deyda, en geta ekki líflátid sálina,

Merk: Þar ed sálin er ædri partur manneskjunnar, eigum vér ad kappkosta, ad láta oss framfara í nytsamlegri þekkíngu og lærdómi, og ætíd girnast hid sanna góda; svo vér hæfilegir verdum til sannarlegrar farsældar, bædi í þessu lífi, og einkanlega í því tilkomanda.

§. 7. **Allt hvad Gud skapadi, var yfrid gott, og í besta máta lagad til þess, sem þad var ætlad; en einkanlega var manneskjan, svo sem skilníngsfull vera, sköpud eptir Guds eigin mind.**

1 Mós. b. 1, 31. Gud sá allt, sem hann hafdi gjört, og sjá! þad var yfrid gott.

1 Mós. b. 1, 26. 27. Gud sagdi: vér viljum gjøra manninn eptir vorri mind, og líkíngu, þá skapadi hann manneskjuna eptir Guds mind; hann skapadi þau karlmann og konu.

Merk: Ekkért af því vonda, er finnst í heiminum, gétur tilreiknast Gudi, sem ekki var orsøk til þess. Skuldin verdur einúngis hjá manneskjunni, sem ekki gætti síns medfædda sakleysis.

§. 8. **Þær fyrstu manneskjur líktust Gudi í nokkru,** og í því tilliti er sagt þær hafi verid **skapadar eptir Guds mind.** Þar í vóru þær honum líkar, ad þær høfdu **þekkíngarfullann skilníng** á ollu, sem þær medþurftu til ad byrja farsællegt líf; líka høfdu þær í **viljanum, lyst og laungun** til hins **góda,** án þess ad freistast af nokkri tilhneigíngu til ills.

Préd. 7, 29. Salómon segir: Þad hefi eg fundid, ad þad, sem Gud hefir gjørt manneskjunni, er rétt. Hér á líka vid þad, sem Postulinn Páll segir, Cól. 3, 10: Ad þeir trúudu hafi íklædst nýrri manneskju, sem endurnýast til þekkíngar eptir þess mind, sem hana hefir skapad. Eph. 4, 24.

Merk: Vér eigum ad ástunda ad verda Gudi líkir ad nýu, og képpast þess vegna daglega eptir ad láta oss fara fram í þekkíngu og rádvendni, svo vér verdum ad nýum og betri manneskjum.

§. 9. Auk manneskjunnar hefir Gud líka skapad adrar skynsemdarfullar verur, sem hafa ædra edli, og kallast Englar. Þeir eru Andar, hafa því skynsemi og frjálsrædi, en jardneskar manneskjur géta ekki sjed þá án Guds sérdeilislegrar tilhlutunar, því þeir hafa engann jardneskann líkama.

Ps. 103, 20. 21. Lofid Drottinn! Þér hans Englar, þér, øblugar hetjur, sem framkvæmid hans bod. Lofid Drottinn! Þér hans Þénarar, sem gjørid hans vilja.

§. 10. a) Nokkrir af Englunum hafa sjálfkrafa fallid frá hlýdni sinni vid Gud, þeir kallast þessvegna vondir Englar, og lída þad straff, sem illska þeirra hafdi tilunnid.

2 Pét. 2, 4. Gud þyrmdi ekki Englunum sem syndgudu, heldur steypti þeim nidur til helvítis, og setti þá í myrkra fjøtur, svo ad þeir geymist þar til dómsins. Matth. 25, 41. Jóh. 8, 34.

b) Hinir Englarnir hafa stadid stødugir í hlýdni sinni vid Gud, og kallast því gódir Englar; þeir hafa yndi sitt af ad skoda Guds dýrd, lofa hann og ákalla, og gjøra allt, sem hann skipar þeim.

Hebr, 1, 14, Eru Englarnir ekki þjónustusamir Andar, útsendir vegna þeirra, sem ødl=

ast skulu sáluhjálpina? Matth. 18, 10, 28, 2—7. Lúk. 1, 26—28. 2, 9—14.

Merk: Í þridju grein af Fadir vor, verdum vér minntir á, ad gjøra þad, sem Gud vill, med sømu lyst og ástundun, eins og gódu Englarnir gjøra þad á himnum.

---

II. Hvad Ritningin kénnir oss um Guds forsjón, og um vidhald allra skapadra hluta.

§. 1. Gud vidheldur øllum skøpudum hlutum med sínu almætti, og lætur þá nidurrødun í náttúrunni halda sér, sem hann einnsinni hefir sett, því annars mundi hún fara aflaga.

1 Mós. b. 8, 22, Medan jørdin er vid lýdi, skal hverki linna sád né uppskéra, frost né hiti, sumar né vetur, dagur né nótt.

Ps. 104, 13. 14. Drottinn, minn Gud! þú vøkvar fjøllin hér ofanad, og fyllir landid med ávøxtum, sem þú géfur; þú lætur grasid spretta handa fénadinum, og korn mønnunum til nota, svo ad þú útleidir braudid úr jørdunni.

Merk: Vér megum ætíd reida oss uppá Gud, hvernig sem ástadt er fyrir oss, því med sínu almætti speki og gædsku, verndar hann jafnan heiminn; en vér megum heldur aldrei gleyma því, ad vegsama hann og þakka honum.

§. 2. a) Gud ber umhyggju fyrir øllum sínum sképnum, smáum og stórum,

veitir þeim öllum allt hvad þær vidþurfa til lífs-uppheldis, gætir þeirra og verndar þær.

Ps. 145, 15. 16. Allra augu vona til þín, Drottinn! og þú géfur þeim þeirra fædu í hæfilegann tíma; þú upplíkur þinni hendi, og sedur allar lifandi sképnur med þinni blessun.

b) Sérílagi ber Gud umhyggju fyrir manneskjunum, er med skynseminni, og hennar réttri brúkun, géta ordid njótandi lángtum meiri sælu enn skynlausu sképnurnar.

Matth. 6, 26 — 30. Jesús sagdi: Gætid ad fuglunum í loptinu, þeir sá hverki né uppskéra, og ekki safna þeir í kornhlødur, samt fædir ydar himneski Fadir þá; erud þér ekki miklu ypparlegri enn þeir? — og þared Gud skrýdir grasid á akrinum, sem stendur í dag, en á morgun verdur kastad í ofn, mundi hann ekki miklu fremur þad sama vid ydur gjøra, þér lítiltrúadir? Matth. 5, 45.

Merk: a) Vér meigum ekki misbrúka skinlausar sképnur, edur fara illa med þær, því Gud, sem hefir skapad þær og nærir, vill ad þeim vegni vel, eins og oss.

b) Vér eigum ekki ad misbrúka Guds gáfur til óhófs, því hann hefir ekki géfid oss þær til annars, enn ad vér skyldum med þeim efla vort eigid og annara sannarlegt gagn.

c) Þared Gud hefir géfid oss vora limi og krapta

til þess vér skyldum brúka þa til nytsamlegrar vinnu, þá vill hann ekki med odrum hætti bera umhyggju fyrir voru uppheldi, enn ad vér sjálfir séum jafnframt ydnir og atorkusamir, hverr i sinu embætti. 1 Mós. b. 3, 19. 2 Thess. 3, 11. 12.

b) Þad er sannarlegur velgjørníngur af Gudi ad vér erum skyldugir ad erfida, því þar med styrkist heilsa likamans, og sálin uppørfast ad hugsa um þad sem er gott og nytsamlegt, i stad þess ad sækjast eptir syndsamlegri gledi.

## §. 3. Gud, sem er heimsins drottinn og stjórnari, stýrir med speki og gædsku øllu því, sem vidber í heiminum, svo ad bædi gott og illt fá þau endalok, sem honum þykja hagkvæmust.

Matth. 10, 20 — 31. Jesús sagdi: Seljast ekki tveir titlíngar fyrir einn smápening? samt fellur einginn af þeim til jardar án ydar Fødurs vilja — enn fremur — øll ydar høfudhár eru líka talin: óttist þessvegna ekki, þér erud meira verdir enn margir titlíngar.

1 Mós. b. 50, 20. Jóseph sagdi vid brædur sina: þér ætludud ad gjøra mér íllt, en Gud ásetti ad snúa því til góds, til ad gjøra þad, sem nú er framkomid og halda mørgu fólki vid lífid.

Merk: a) Vér eigum ad fela Gudi á hendur hvada árángur verdur af voru løglegu erf=

idi, þared ekkért skédur án hans vilja eda tilsátsemi.

b) Þegar Gud leyfir vondum monnum ad gjora skada vegna þess hann vill ekki med makt svipta þá sjálfrædi þeirra, meigum vér samt treysta því, ad hann i tækan tíma muni snúa því til góds, annadhvert til vorrar eigin edur annara nytsemdar.

c) Jafnvel þó þad á stundum liti svo út, eins og hinum ógudlegu gángi allt ad óskum, en gudhræddir meigi lida naudir og volædi, er Gud samt vísdómsfullur og réttlátur í sinni stjórnun, því hann veit betst hvad nytsamlegt er, bædi hverjum út af fyrir sig, og lika øllum heiminum yfir høfud ad tala; en í hinu ødru lifi mun hann vissulega straffa sérhvern, og launa øllum, eptir sem hverr hefir tilunnid.

**§. 4. Sérhverjum ber ad álíta þad stand, sem hann er í settur, eins og vissa køllun af Gudi, til ad gjora þar svo mikid gagn, sem honum eptir fremsta megni, efnum og ásigkomulagi er mögulegt.**

1 Sam, 2, 7. Drottinn er sá, sem gjørir fátækan og ríkan; hann er sá, sem nidurþrykkir og upphefur.

1 Cor. 7, 20. Hverr einn standi stødugur í þeirri stétt, sem hann er tilkalladur.

Merk: Hverr sem er óánægdur med sitt stand,

sá ásakar Guds algódu forsjón, og sýnir í því mikla fávitsku.

§. 5. **Hvad sem oss mætir í þessu lífi, hvert þad er heldur sorg eda gledi, er oss af Gudi ætlad eptir betsta tilgángi, svo vér höfum ætíd orsök til ad vera ánægdir med hans stjórnun og umrád.**

Hebr. 13, 5. 6. Látid ydur nægjast med þad, sem þér hafid; því sjálfur Drottinn hefir sagt: eg skal ekki svipta minni hendi af þér og einganveiginn yfirgefa þig; vér getum því hughraustir sagt: Drottinn er minn hjálpari, eg skal ekki kvída!

Róm. 8. 28. Vér vitum, ad allir hlutir verda ad þéna þeim til góds, sem Gud elska.

Merk: Ovidurkvæmilegt er fyrir oss ad falla í výl edur efasemi, þá mótgángur uppákemur, þar vér vitum ad Guds forsjón vakir yfir oss, og ad neydin sjálf verdur ad medali í Guds hendi til ad efla vort sannarlega gagn.

Lærdómurinn um sköpunina og vidhaldid er stuttlega útmáladur í fyrstu grein Trúarjátníngarinnar í Frædunum.

---

# Þridji Kapituli.

## Um manneskjanna spillingu af syndinni.

---

§. 1 Reynslan sýnir ad manneskjurnar eru ekki svo gódar, sem þær vera ættu. Allir hafa sína bresti, og hjá øllum hreifir sér ein edur ønnur syndsamleg tilhneiging; hjá summum meir, enn summum minna.

Róm. 3, 23. Allir hafa syndgad og hafa skort á þeirri hrósun, sem hjá Gudi gyldir.

1 Jóh. 1, 8. Ef vér segjum, ad vér høfum ekki synd, þá svíkjum vér sjálfa oss og sannleikurinn er ekki í oss.

Merk: Vér høfum einga orsøk til ad treysta vorum eiginn verdugleika, edur fyrirlíta adra, því allir erum vér ófullkomnir, og sérhverr hefir nóg ad ásaka sig fyrir.

§. 2. Sú almenna spilling manneskjanna er einkanlega þar í fólgin, ad þeir brúka ekki skynsemina til réttrar yfirvegunar, hvad ed kemur þar af, ad syndsamleg girnd til jardneskra hluta, sem skilningarvitin fýsir til, hefir feingid svo mikid vald yfir hugskoti þeirra, ad þeir sækjast eptir tédum hlutum, svo sem væru þeir

þad ædsta góda. Þar af skédur, ad mann-eskjan getur haft vit á því góda, en hefir samt tilhneigingu til ens vonda.

Mark. 7, 21—23. Jesús segir: Innanad, frá manneskjunnar hugskoti, útkoma vondar hugsanir, hórdómur, frillulifi, mord, þjófnadur, ágirnd, illska, svik, lauslæti, øfund, bakmælgi, dramb, hirduleisi; allt þetta kemur út innanad og saurgar manneskjuna.

Róm. 7, 18. Postulinn Páll játar: eg veit ad í mér — þad er, í syndumspilltri náttúru minni — býr ekkért gott.

Merk: Vér verdum nákvæmlega ad gæta vor, svo ad vondar girndir uppkveikist ekki hjá oss, en alvarlega kappkosta ad nidurkefja þær, þegar þær taka til ad hreifa sér, svo þær fái ekki yfirhönd, og ad vér hropum ekki í lesti og ódygdir, sem draga Guds ónád eptir sig, bædi í þessu lifi og í hinu tilkomanda.

§. 3. a) Ekki er Gudi um spillíngu manneskjunnar ad kenna, því hann skóp þær fyrstu manneskjur saklausar eptir sinni mynd.

Jak. 1, 13. Einginn segi nær hann freistast: eg freistast af Gudi, því Gud getur ekki freistast af nokkru illu, hann sjálfur freistar og einkis.

b) Gud hafdi bannad þeim fyrstu manneskjum ad eta ávøxtinn af einu tilteknu tré, en þau gjørdu þad samt, og fyrir þá søk urdu þau ekki einúngis, svo sem óhlýdug, daudastraffi undirorpin, eins og Gud hafdi hótad þeim, heldur mistu þau líka þeirra fyrri lyst til ens góda, þared óregluleg girnd til jardneskra hluta fékk yfirrád yfir skynsemi og vilja þeirra.

1 Mós. b. 2, 16. 17. Gud Drottinn baud manneskjunni og sagdi: af øllum trjám í aldingardinum máttu eta, en af skilníngstrénu góds og ílls máttú ekki eta, því nær sem þú etur af því, skaltú vissulega deya.

Merk: Gud reyndi ekki sjálfs síns vegna vora fyrstu foreldra med því, ad banna þeim ávøxtinn á trénu, þar hann vissi gjørla fyrirfram, hvert þau mundu hlýda sér edur ekki; heldur var þørf á einhverri reynslu vegna sjálfra þeirra, allteins og vegna sérhverrar annarar skilningsfullrar skepnu. Reynsla þessi átti ad gefa þeim tækifæri til ad brúka þeirra sjálfrædi, útvelja hid góda, og hafna því illa, eptir eigin umþeinkingu, þeim sjálfsum til stadfestingar í dygd og rádvendni.

§. 4. Ritníngin segir oss: ad einn af þeim Einglum, sem fallnir voru frá hlýdni vid Gud, og sérílagi kallast Djøfull, hafi reynt ad

steypa vorum fyrstu foreldrum í sömu naud-
ir sem hann var sjálfur kominn í, og ginnt
Evu til ad eta af forbodna trénu, en
hún lokkadi sídan mann sinn Adam, til sama
verks.

1 Mós. b. 3, 1 — 6. Høggormurinn sagdi
vid konuna: ekki munud þid deya, því Gud
veit, ad nær sem þid etid af því tré, munu
ykkar augu uppljúkast, og þid munud verda
eins og Gud í ad þekkja gott og íllt; en kon-
an sá ad tréd var gott ad eta af, fagurt á ad
líta og girnilegt til fródleiks, svo hún tók af
þess ávexti og át, og hún gaf manni sínum
þar af, og hann át.

Jóh. 8, 44. Djøfullinn var mordíngi frá
upphafi og var ekki stødugur í sannleikanum,
því sannleiki er ekki í honum; þegar hann tal-
ar lýgi, talar hann af sinu eigin, þvi hann er
lygari og lýginnar høfundur.

Merk: Hefdi Gud átt ad hindra þá fyrstu for-
eldra frá ad brjóta hans bodord, þá hefdi
hann ordid ad þvínga þau med almætti sínu,
þared þeir vildu ekki viljuglega hlýda hans bodi
og advorun. En þá hefdu þeir mist skynsemi
sína og frjálsrædi og undir eins ordid ad skyn-
lausum skepnum, er ekki hefdu sídan getad tek-
id á móti þeirri sælu sem þeim var ætlud, hvad
þó ekki var samkvæmt med Guds speki og gædsku.

§. 5. a) Vorir fyrstu foreldrar gátu ekki látid þad sakleysi gánga í ættir til afkomenda sinna, sem þeir höfdu sjálfir míst; en sídan sjálfra þeirra edli var ordid spillt og skemmt, hlaut þaraf ad fylgja, ad nidir þeirra erfdu þessa spillingu.

Ps. 54, 7. Davíd játar: Eg er fæddur med misverknadi, og í syndinni gat mín módir mig. Jóh. 3, 6.

b) Sokum þess, ad syndsamleg girnd til jardneskra hluta fékk yfirrád hjá vorum fyrstu foreldrum, er hin sama girnd nú ordin kroptug í allra manna sálum; med árafjoldanum fædir hún af sér ýmislegar syndir, og daudinn er þad straff, sem Gud hefir vidlagt, ef þær drýgdar væru.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni kominn í heiminn og daudinn vegna syndarinnar, svo hefir daudinn sér til allra manna innþreyngt, því allir hafa syndgad. Róm. 6, 23.

Merk: a) Eins og þad tré, sem er af íllri tegund, ekki getur borid betstu ávexti, eins er þess ekki heldur von, ad foreldrar, sem tapad hafa sakleysi sínu, og eru spilltir af vondum girnd-

um, kunni ad géta góda, og med ǫllu saklausa, afkomendur, því verkanin verdur ad líkjast orsøkinni. Matth, 7, 16. 18. Jóh. 14, 4.

b) Gud vildi ekki hindra, ad sú almenna spillíng, sem af hinum fyrstu mǫnnum var kominn í heiminn, útdreifdist eptir náttúrlegu edli og rás til allra þeirra afkomenda, því hann hafdi frá eilífd fyrirhugad þeim ǫllum nægilegt lausnarmedal vegna Krists. Róm. 11, 32. Gal. 3, 22.

§. 6. Hversu stór sem spillíngin var, sem komin er yfir allar manneskjur, hefir Gud þó hagad því svo, ad í vorum hjǫrtum skyldi eptir verda drottnandi eptirlángan til lukku og velgeingni, sem ekki leyfir oss ad vera oldúngis hirdulausum um vora eigin velferd.

Eph. 5, 29. Aldrei hefir neinn hatad sinn eiginn líkama, heldur fædir hann og endurnærir.

Merk: a) Sannarleg farsæld hér í heimi er einúngis innifalin í velgrundadri sinnisrósemi og ánægju. Hvad, sem móti henni stridir, er ekki vert ad sækjast eptir, þar þad er miklu meir farsæld vorri til hindrúnar enn eblingar.

b) Lesti og ódygdir, sem án efa munu eptir á abla oss mikils sinnisóróa, eigum vér af fremsta megni ad fordast og af ad leggja.

§. 7. Spillíngin hefir samt ekki gerad

svo mikid adgjørt, ad vér séum øldúngis tilfinníngarlausir um þad, sem rétt er edur rángt í vorum athøfnum; því eptir Guds alvísu rádstøfun høfum vér allir samvitsku, er lætur oss finna til innvortis ánægju, þegar vér gjørum þad sem rétt er, en þar á mót uppvekur innvortis óánægju og órósemi, þegar vér tøkum oss eitthvad þad fyrir hendur, sem ekki er rétt edur leyfilegt.

Róm. 2, 14. 15. Þegar heidíngjarnir sem ekki hafa løgmálid, gjøra þad af náttúrunni, sem løgmálid skipar, þá eru þeir, þótt ekki hafi þeir løgmálid, sjálfum sér í løgmáls stad; því þeir sýna, ad løgmálsins verk eru skrifud í þeirra hugskoti, med því þeirra samvitska ber þeim vitni, og þeirra þánkar, sem ásaka eda afsaka þá innbyrdis.

Merk: a) Vor samvitska er góð, þegar vér finnum hjá sjálfum oss, ad ekkért verdur med réttu fundid ad vorri breytni: Þarámóti er vor samvitska vond, þegar vér finnum, ad vér ekki høfum hegdad oss eins og vera ber.

b) Stærri kvøl kann ekki ad hugsast enn vond samvitska, sem ossækir med sínu álasi bædi í lífi og dauda. Þessvegna eigum vér því heldur ad kappkosta ad lifa gudrækilega, svo vér getum haldid gódri samvitsku.

c) Hjá mørgum sefur samvitskan, um stundar-

sakir, medan þeir ekki gefa gætur ad illverkum sínum, en einhverntíma mun hún samt vakna; mun þá og uppkoma þess stærri kvídi og ángur í sálunni.

§. 8. a) Manneskjan syndgar, þegar hún verdur **brotleg** í einhverju, sem strídir á móti Guds bodi, þessvegna er þad **allt synd**, sem ekki er samkvæmt Guds vilja.

1 Jóh. 3, 4. Hverr sem syndina drýgir, hann gjørir þad, sem er móti løgmálinu, því þad er synd, sem er móti løgmálinu.

b) Manneskjan drýgir synd med **hugrenníngum** og **girndum**, þegar hún hefur ánægju af ad hugsa um þad, sem Gudi er á móti, og sækist eptir því.

Matth. 9, 4. Jesús sagdi til Phariseanna: því hugsid þér svo íllt í ydrum hjørtum? Matth. 15. 19. 20.

c) Manneskjan drýgir synd med **ordunum**, þegar hún talar um eitthvad, sem annadhvert ekki sambýdur þeirri virdíngu, er hún á Gudi ad veita, eda módgar, ellegar skadar náúngann.

Matth. 12, 36. Jesús sagdi: manneskjurnar eiga ad standa reikníng á dómsdegi af sérhverju óvidurkvæmilegu ordi, sem þær hafa talad.

d) Manneskjan drýgir synd med verkunum, þegar hún annadhvert **gjörir** eitthvad sem Gud hefir bannad, edur lætur ógjört, þad sem hann hefir skipad.

1 Jóh. 3, 6. Hverr sem stöduglega heldur sér til Guds, drýgir ekki synd; hverr sem syndina drýgir, hefir hvorki séd Gud né adhyllst hann.

Jak. 4, 17. Hverr sem kann ad gjöra gott en gjörir þad ekki, hann syndgar.

Merk: Þad er ekki nóg, ad vér fordumst útvortis íll ord og verk, sem gjöra oss jafnvel fyrir mönnunum andstyggilega, heldur eigum vér einnig ad gæta vor vid íllum hugrenníngum, sem ekki eru huldar fyrir alvísum Gudi, er hefir vidbjód á þeim og mun straffa þær.

§. 9. a) **Allar syndir** eru ad sönnu **rángindi** í sjálfu sér, samt eru þær ekki allar **jafnstórar**, eda sömu **refsíngar** verdar.

Jóh. 19, 11. Jesús sagdi vid Pílatus: Sá sem fékk mig þér í hendur, hefir meira syndgad enn þú.

b) **Sannkristin manneskja getur syndgad af breiskleika**, annadhvert af því hún hefir ekki betur vit á, jafnvel þó hún bædi gæti og ætti ad hafa haft vit á því; ellegar hún gjörir þad í brádrædi, og móti vilja sín-

unn; en strax, sem hún verdur vör vid yfirsjón sína, ángrast hún af henni, og med einlægum ásetningi ad vilja betra sig, bidur Gud, fyrir Krists sakir, um nád.

Róm. 7, 18. 19. Viljann til þess góda hef eg ad sönnu, en ekki krapt til ad framkvæma þad; því hid góda, sem eg vil, þad gjöri eg ekki, en þad vonda, sem eg ekki vil, þád gjöri eg.

c) Hinn ógudlegi syndgar af ásetningi, þótt hann viti betur, og hann hefir yndi af því, án þess hann ángrist af illsku sinni, eda bidji fyrirgefníngar á henni, og leitist vid ad betra sig.

Phil. 3, 18. 19. Margir breyta eins og eg optsinnis hefi sagt ydur og med grátandi tárum segi enn, ad þeir eru óvinir krossins Krists, hverra afdrif verda, ad þeir tortýnast; þeir, sem hafa magann fyrir sinn Gud, þykir sómi ad skömmunum og sækjast eptir jardneskum munum.

d) Hverr, sem syndgar af ásetníngi, sýnir þar med, ad hann metur Gud einkis í hjarta sínu, og lætur ekki ásannast hversu ósegjanlega gædskuríkur Gud er; þess vegna er þad réttvíst ad hann fái hardara

straff enn sá, sem illa breytir, án þess ad gjøra þad af ásetníngi.

Lúk. 12, 47. 48. Sá þjón, sem veit síns herra vilja og býr sig ekki til, eda breytir eptir honum, mun straffast hart; en hinn, sem ekki veit þann vilja, og hverjum þó hefir á ordid, hann mun straffast minna.

Merk: Þad stridir oldúngis á móti þeirri elsku og virdingu, sem sannkristin manneskja á ad hafa fyrir Gudi, ad gjora nokkud af ásettu rádi, sem hún veit ad stridir á móti Guds vilja, ellegar ad láta nokkud af því med ásetníngi ógjort, sem hún er skyldug ad gjøra. Hverr sem af hjarta virdir og elskar Gud, sá fordast med mestu varúd ad brjóta visvitandi á móti nokkru hans bodordi. 1 Mós. b. 39, 9. Róm. 6, 15.

§. 10. a) **Manneskjan getur ekki ødlast neina sannarlega farsæld af syndinni, því hennar ímyndada kæti hverfur skjótt; en bædi órósemi og blygdan samvitskunnar og Guds ónád, fylgja eptir henni, er ásamt med steypir manneskjunni, og þad stundum strax í þessu lífi, í margskyns eymd og volædi.**

Ordskv. b. 14, 34. Syndin er lands og lýda tøpun. 1 Tím. 6, 10. Jak. 4, 1. 2.

b) **Í eptirkomanda lífi verda strax kvalir og útilokun frá Guds nád og**

miskunsemi, viss gjøld og afdrif synd-
anna, ef vér høldum án yfirbótar áfram í
þeim med gedþekkni, og af ásetníngi.

Róm. 2, 8. 9. Yfir þá, sem eru mótsnúnir,
og ekki hlýda sannleikanum, en fallast heldur
á ránglætid, skal koma reidi og hefnd; hrell-
íngar og harmkvæli skulu vera yfir allra
manna sálum, sem íllsku drýgja.

Merk: Mjøg hættulegt er, ad láta syndanna
tillokkanir rótfestast í hjartanu; því auk þess
ad manneskjan spillir þar med hugarfari sínu og
sinnislagi, svo getur sú synd, sem opt er um hønd
høfd, ordid fljótt ad vana, og vaninn um sídir ad
forherdíngu, hvar af yfirbótin verdur lángtum tor-
veldari.

---

# Fjórdi Kapituli.

## Um þad, hvernig Jesús Kristur hefir vidrétt manneskjurnar úr þeirra spillíngu.

---

§. 1. Gud vildi ekki ad syndin, sem
í heiminn var komin, skyldi steypa mann-
eskjunum í eilífa tøpun, án þess nokkur

von væri um frelsi, þessvegna hefir hann af sinni líknarfullu elsku, tilskikkad þeim Endurlausnara, til ad frelsa þær frá syndarinnar skadlegu verkunum, en veita þeim aptur adgáng til Guds nádar, bædi í þessu lífi og í því tilkomanda.

Jóh. 3, 16. Jesús segir: svo elskadi Gud veröldina, ad hann gaf í daudann sinn eingetinn Son, til þess ad allir þeir sem á hann trúa, ekki skuli fyrifarast, heldur hafa eilífa sælu. Róm. 8, 32. Eph. 1, 6. 7.

Merk: a) Endurlausnarinn var ekki sendur til ad frelsa syndugar manneskjur frá þeirra líkamlegu naud, því þeirra sannarlega gagn útheimtir, ad Gud verdur ad leyfa ad hormúngar og mótgángur uppáfalli fyrir þeim, til ad uppvekja hjá þeim laungun eptir betra lífi, og koma þeim til ad afneita veraldlegum hégóma. Hebr. 13, 5 — 11. Jak. 1, 2 — 4.

b) Eptir speki sinni og elsku sendi Gud Endurlausnarann til ad afmá syndarinnar skelfilegu verkanir, er olla manneskjunum mestu eymdar og bágindа; því syndinni fylgir Guds reidi, órósemi samvitskunnar, örvænting í daudanum, ásamt med útilokun frá öllum sóma og gledi í eilífdinni, hvar ógudlegir ekki eiga von nema á kvöl og ángist. 1 Jóh. 3, 4. 2 Cor. 5, 21.

§. 2. Endurlausnarinn er Jesús Kristur, Guds himneska Fødurs eingetinn Sonur, sem frá eilífd hefir verid sameinadur med Fødurnum í einni og somu sannarlega guddómlegri veru, en kom í heiminn á þeim tíma, sem Gud hafdi ádur tiltekid í sínum fyrirheitum.

1 Jóh. 4, 10. 15. Svo var þeirri elsku varid, ekki ad vér elskudum Gud, heldur ad hann elskadi oss og sendi sinn Son, til ad forlíka fyrir vorar syndir. — Hverr sem medkennir ad Jesús er Guds Sonur, honum hjálpar Gud stadfastlega og hann heldur sér støduglega til Guds. Jóh. 3, 17. 18.

1 Mós. b. 22, 18. Dróttinn gaf Abraham þad loford: af þínu afkvæmi skulu allar þjódir á jørdunni blessun hljóta. Gal. 3, 16. 1. Mós. b. 3, 15.

Merk: a) Eptir Guds eigin skipun, var Endurlausnarinn kalladur Jesús, sem þýdir Frelsari, svo þarmed yrdi sýnt, ad hann ætti ad frelsa mannkynid frá þeirri eymd, í hverja syndin hafdi steypt því. Matth. 1. 21.

b) Endurlausnarinn kallast Kristur edur Messías, vegna þess, ad spádómarnir tala um hann, svo sem þann Drottins smurda, er vera skyldi herra og konúngur í andlega nádarríkinu, hvert

Gud ætladi ad láta hann stipta til syndaranna frelsis.

c) **Einginn annar enn Jesús af Nazareth,** getur **verid Messías,** því öll þau kennitcikn, sem honum eru tillögd i Guds fyrirheitum, eiga fullkomlega heima hjá honum. Jóh. 7, 40. 42. Matth. 26, 63. 64. Jóh. 4, 25, 26. 9, 35. 38. 18. 32 — 37.

**Messías** átti, ad því leiti sem hann var manneskja, ad vera **kominn af Abrahams ætt,** 1 Mós. b. 22, 18. og **Davíds kynþætti;** Es. 11, 1. líka fædast i **Bethlehem Davíds borg,** Mikk. 5, 1.

**Messías** átti ad koma i heiminn, **ádur enn Gydíngar høfdu øldúngis mist sína eigin valdstjórn,** 1 Mós. b. 49, 8 — 10; ádur enn seinna **musterid í Jerúsalem eydilágdist,** Hagg. 2, 7; og ádur enn sú tíd væri lidin, sem spámadurinn **Daníel** hafdi tiltekid, Dan. 9, 24 - 27.

**Messías** átti fyrst **ad lída sára pínu og líflátinn verda,** en strax þar eptir upprisa af grøfinni til **óforgeingilegs lífs,** og med því ad útbreida sinn lærdóm, snúa mørgum þjódum frá skurdgoda-dýrkun til sannleiksins þekkingar. Sálm. 22, 1. 19. Es. 53, 1 — 9. Sálm. 16, 5 — 11. 100, 1 — 4. Es. 42, 1 — 9. 53. 10 — 12. 55, 1—5.

**Allt þetta er framkomid á Jesú frá Nazareth,** og getur sídan ekki framkomid vid neinn annan, því þau kennimerki, med hverjum þeim tilkomanda **Messías** var lýst, eru ekki lengur til.

§. 3. Jesús Kristur er, ad því leiti sem hann er manneskja, kominn í heiminn á þann hátt, ad hann fæddist af Maríu meyu. Hann sameinadi þá guddómlegu náttúru vid ena manndómlegu, sem tilbúin var í módurlífi af heilags Anda krapti, med þeim hætti, sem vér ekki getum skilid, svo ad hann er undireins bædi Gud og madur, og verkar ætíd med bádum sínum náttúrum.

Matth. 1, 20. 21. Eingillinn sagdi vid Jóseph, sem var trúlofadur Maríu: Výla þú ekki fyrir þér ad taka Maríu, þína festarkonu, heim til þín, því hennar fóstur er af heiløgum Anda, og hún mun son fæda, og hans nafn skaltú kalla: Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk af þess syndum. Lúk. 1, 35.

Róm. 9, 5. Kristur er eptir holdinu, edur sinni manndómlegu náttúru, af fedrunum; hann, sem er Gud yfir øllu, blessadur ad eilífu.

Merk: Allt þad, sem Jesús Kristur útverkadi handa oss, gjørdi hann ekki sem einúngis manneskja, heldur sem Gud og madur undireins. Þessvegna høfum vér líka sterkustu fullvissu um, ad sú endurlausn, sem hann hefir oss afrekad, sé fullgyld.

§. 4. a) Jesús Kristur var sannarleg manneskja med sálu og líkama eins og vér

en þó án syndar, og fullkomlega heilagur í öllu sínu framferdi.

Joh. 8, 46. Jesús spurdi óvini sína: Hverr af ydur getur sannad uppá mig nokkra synd? 1 Pét. 2, 22. Hebr. 7, 26.

b) Jesús sýndi í öllu sínu líferni, hlýdni vid öll Guds bodord, bædi til ad afreka oss betra réttlæti, og líka til ad eptirláta oss hid bezta eptirdæmi, hverju vér fylgja skyldum.

Róm. 5, 19. Eins og af þess eina manns (Adams) óhlýdni eru þeir mörgu syndugir ordnir, eins munu líka þeir mörgu af hins eina (Jesú Krists) hlýdni, verda réttlættir.

1 Pét. 2, 21. Kristur hefur oss eptirdæmi gefid. til þess vér skyldum feta í hans fótspor. Matth. 11, 29. Phil. 2, 5.

Merk: a) Eins og Jesú Krists eptirbreytendur, eigum vér ad hans dæmi, med alvarlegri ástundun audsýna, ad vér séum ánægdir med þad, sem Gud vill vera láta. Matth. 26, 39. Líka hafa eptirlaungun og kapp á ad gjöra þad, sem honum er þóknanlegt. Jóh. 4, 34.

b) Vér eigum, eptir Jesú dæmi, ad láta ásannast í verkunum, ad vér elskum alla menn, med því ad kenna í brjósti um þá aumu, og hjálpa þeim eptir efnum. Lúk. 7, 11. 17. Matth. 9, 35. 36. Líka fúslega fyrirgefa vorum mótstödu-

mönnum, Lúk. 23, 34, og vera reidubúnir til ad þéna þeim í öllu. Jóh. 13, 1. 20.

c) Vér eigum ad keppast eptir ad líkjast Jesú í þolinmædi. 1 Pét. 2, 23. Matth. 26, 47—54. Lúk. 22, 61—68; einnig í því ad vera ánægdir og afneita sjálfum oss, vegna sannleikans. Matth. 8, 20.

§. 5. a) Þegar Jesús var þrjátíu ára gamall, lét hann skíra sig í ánni Jórdan, og var þá af himnum med dýrdlegum hætti kunngjört, ad hann væri Guds Sonur.

Matth. 3, 16. 17. Þegar Jesús var skírdur, sté hann jafnskjótt upp úr vatninu, og sjá! himnarnir lukust upp yfir honum, og Jóhannes sá Guds Anda ofan stíga og yfir hann koma, og sjá! röddin af himni sagdi: Þessi er sonur minn elskulegur á hverjum eg hefi velþóknun.

b) Jesús var strax eptir skírnina á eydimörku reyndur í fjörutíu daga med margslags hætti, svo ad hann med sínu stöduglyndi gæfi oss dæmi til ad breyta eptir.

Mark. 1, 12. 13. Andinn (Guds Andi) færdi hann jafnskjótt út á eydimörkina, og Jesús var þar í fjörutíu daga, og vard freistadur af Andskotanum. Matth. 4, 1—11.

c) Eptir ad Jesús var skírdur, og hafdi

afstadid freistínguna, ferdadist hann um kríng medal Gydínga á fjórda ár, og kenndi þeim eins og spámadur af himnum sendur, Guds rád og vilja um syndaranna frelsun og sáluhjálp.

Mark. 1, 14. 15. Jesús prédikadi lærdóminn um Guds ríki og sagdi: tíminn er kominn og Guds ríki nálægist, sjáid ad ydur og trúid evangelió! Matth. 4, 23.

d) Medan Jesús gekk í kríng og kenndi, stadfesti hann opt kenníngu sína med miklum og gædskurikum kraptaverkum, sem augljóslega sýndu, ad hann var af Gudi sendur.

Matth. 11, 4. 5. Jesús sagdi vid Lærisveina Jóhannesar skírara: farid og kunngjørid Jóhannesi þad sem þér heyrid og sjáid: blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa, og voludum verdur evangelíum bodad. Post. Gb. 40, 37. 38.

Merk: a) Med Jesú Krists dýrmæta lærdómi er hvad af hverju afmád og upprætt sú vidurstyggilega hjátrú og afgudadýrkan, sem ádur drottnadi í veroldinni. 1 Cor. 8, 4—6.

b) Med Jesú lærdómi hofum vér fengid rétta þekkíngu á Gudi og hans vilja í því, sem vidkemur syndaranna sáluhjálp. Jóh. 14, 5—7. 17, 3. 6. 8. 14. 17.

c) Jesús hefir kennt oss þad, sem vér annars værum ekki fullvissir um, nefnil., ad annad líf sé til eptir þetta, og ad gudhræddir komi eptir daudann í eilífa sælu. Jóh. 3, 14. 18. 5, 21—29. 1 Pet. 1, 3—5. 2 Tím. 8—10.

d) Jesú lærdómur er oss betsti leidarvísir til dygdafulls lífernis. Matth. 5, 6. 7. 13. 15. 18. 20. 22. 25. Lúk. 10, 16. 18. Jóh. 13, 14—16.

e) Hverr sem med einlægu hjartaþeli vill medtaka Jesú lærdóm og fylgja honum, mun sannarlega komast ad raun um, ad í honum er guddómlegur kraptur til ad betra hjartad, hugga samvitskuna, og stadfesta vonina um eilífa sælu. Þar med styrkist líka í kroptugasta máta vor fullvissa um, ad þessi lærdómur sé Födursins ord, sem hann lét Soninn opinbera mannkyninu, og ad sá lærdómur sé þessvegna í sannleika guddómlegur. Jóh. 7, 16. 17. 8, 31—36. 12, 44—50. 14, 8—10.

§. 6. a) Medan **Jesús kenndi á Gydíngalandi** var hann undirorpinn **margskonar ofsóknum**, þared höfdingjar Gydíngamna, fyrir ofundar sakir yfir því hvad mikid honum tókst vid almúgann, og af hatri **vid Jesum**, af því hann vildi ekki fegra vondsku þeirra, reyndu til, bædi med **vélum** og **ofríki**, ad taka hann af lífi.

Lúk. 19, 47. 48. Hann kenndi daglega í musterinu, en yppurstu prestar og skriftlærdir og høfdíngjar lýdsins sóttu eptir ad fyrirkoma honum, þó fundu þeir ekkért, er þeir gæti gjørt, því allt fólkid hné ad honum og hlýddi honum. Matth. 12, 14. 22, 15—21. 27, 18. Lúk. 20, 20.

b) Jesú eiginn lærisveinn, svíkarinn Júdas, vard um sídir **keyptur til** ad selja **hann høfdíngjunum** í hendur, sem þá **dæmdu** hann, án allra saka, til dauda, og feingu hann heidna landsdómaranum, þeim **pontverska Pílatusi.** Þessi Pílatus óttadist reidi keisarans, hverri þeir hótudu honum, og lét, móti vilja sínum, **húdstrýkja Jesúm, þyrnikrýna, hæda** og **negla** eins og illvirkja á **krossinn,** hvar hann **uppgaf sinn anda.**

Matth. 20, 18, 19. Jesús sagdi fyrirfram vid sína Lærisveina: sjá! vér førum nú upp til Jerúsalem, og mannsins Sonur mun seljast prestahøfdíngjum og skriftlærdum í hendur, og þeir munu dæma hann til dauda, og fá hann heidíngjum til ad láta spotta hann, húdstrýkja og krossfesta. Matth. 16, 21—23. 17, 22. 23. Luk. 18; 31—34. Matth. 26, 14.

16. Mark. 14. 43 — 46. Jóh. 13, 21 — 30. 18, 1 — 9.

Lúk. 23, 46. Loksins kalladi Jesús á krossinum med hárri raustu og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda; og í því hann sagdi þad, uppgaf hann sinn anda. Jóh. 19, 33 — 37.

c) Jesús vard ekki einúngis ad þola sára pínu á líkamanum, heldur leid hann líka á sálunni beiska kvøl og ángist, vegna mannanna synda.

Matth. 26, 37 — 39. Þegar Jesús var kominn í grasgardinn, tók hann ákaflega ad hryggjast, segjandi: min sál er hrigg allt til daudans. Þar eptir gekk hann lengra fram, féll nidur á sína ásjónu, bad og sagdi: minn Fadir! ef þad er møgulegt, þá lídi þessi kaleikur frá mér, þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt. Matth. 27, 46. Luk. 22, 41 — 44.

Merk: a) Jesús sýndi med hugprýdi sinni, ad hann væri ekki hræddur fyrir daudanum, þegar hann gekk á móti óvinunum, sem voru ad leita ad honum; hann vissi líka ad hinir himnesku andar mundu veita sér lid, ef hann vildi slíta sig úr høndum óvina sinna; og þar þeir allir duttu til jardar, þegar hann taladi, sýndi hann hvad hægt sér hefdi verid ad sleppa frá þeim, ef hann hefdi viljad. Matth. 26, 53. Jóh. 18, 4 — 6.

b) Það var ekki að undra, þó Jesú, eins og manneskju, bløskraði að hugsa til þeirrar ógnarlegu pínu, er fyrir honum lá; en laungu áður vissi hann, hvað yfir sig mundi koma, var samt ætíð óhræddur og reiðubúinn til að taka það alltsaman, mannanna vegna, uppá sig eptir síns Föðurs vilja. Þar af er auðráðið, að hans mikla sálar-ángist hefir einkanlega komið af því, að hann setti sér fyrir sjónir allra syndugra manna misbrot, svo viðbjóðsleg, sem þau eru, og sá að øll þau voru sér nú tilreiknuð. Es. 53, 6 — 12. Hebr. 5, 7 — 9.

§. 7. a) Jesús var øldúngis saklaus, og varð að líða, án þess hann í nokkru hefði misbrotið eða syndgað.

Lúk. 23, 4. Pílatus sagði við kennimanna-høfðíngjana og fólkið: eg finn enga søk hjá þessum manni. Matth. 27, 4. 18. 19. 23. 24.

b) Jesús gekk með fúsum vilja undir pínuna, og af elsku og meðaumkun yfir oss syndurunum, eptir síns himneska Föðurs ráði og vilja, þar vér annars hefðum eilíflega fortýnst vegna vorra synda.

Phil. 2, 6 — 8. Þó að Jesús Kristur væri í Guðs mynd, fór hann samt ekki með það eins og það væri herfáng, að hann var líkur Guði, heldur lítillækkaði hann sjálfan sig, tók

á sig þræls mynd, og vard hlýdugur allt til dauda, já, allt til dauda á krossinum. Jóh. 10, 11. 18. Sálm. 40, 6 — 9.

c) Jesús leid pínuna í allra syndugra manna stad og fyrir oss alla, svo hann gæti fridþægt fyrir vor mörgu afbrot, med ad þola þad straff, sem vér allir höfdum tilunnid; med þvílíkum hætti gat Gud fyrirgefid oss syndirnar, án þess ad gjöra móti réttdæmi sínu, eda skérda sitt lögmál, ellegar ad veikja sitt herradæmi.

Matth. 20, 28. Jesús segir: Manneskjunnar Sonur er ekki kominn til ad láta sér þjóna, heldur ad hann þjóni sjálfur, og útgefi sitt líf til lausnargjalds fyrir marga. 1 Tím. 2, 5. 6. Jóh. 6, 51. Róm. 5, 7. 8.

Matth. 26, 28. Þegar ad því var komid ad Jesús geingi til daudans, sagdi hann: mitt blód úthellist fyrir marga, til syndanna fyrirgefníngar. Eph. 1, 7. 1 Cor. 15, 3. Es. 53, 4 — 12. Hebr. 10, 1 — 14.

Eph. 5, 2. Kristur elskadi oss og gaf sig sjálfan út fyrir oss til fórnfæríngar og slátrunar offurs, svo Gudi væri þad þóknanlegt. Hebr. 10, 1 — 22. 2 Cor. 5, 15. 21.

Merk: a) Á gamla Testamentisins tídum vard ypparsti prestur Gydínganna, eptir Guds skip-

un, á hinni stóru fridþægingar hátíd, ad bera offur inni helgidóminn, til forlíkunar fyrir fólksins syndir. 3 Mós. b. 16, 1—28. En þetta offur átti ad fyrimynda fridþægjandi pínu og dauda Endurlausnarans, er koma skyldi, Gydingum til advörunar og endurminningar um þad straff, er syndin hafdi tilunnid. Hebr. 10, 1—4.

b) Þegar Jesús fórnfærdi sér sjálfum til fridþægíngar fyrir heimsins syndir, sýndi hann, ad hann væri sá rétti ædstiprestur, hvern Gud hafdi tilsett, og hann frambar þá forlíkunar fórn, sem einsömul nægir til eilífrar fridþægingar fyrir alla. Hebr. 9, 11. 14.

c) Gamla Testamentisins fórnfæríngar aftókust öldúngis, þegar Jesús Kristur offradi sjálfum sér; en öll hjátrúarfull fridþægingar medöl, sem mennirnir höfdu sjálfir uppfundid, og sem ætíd höfdu verid kraptalaus og einkisverd, féllu þá af sjálfum sér um koll og urdu ad eingu.

d) Vér eigum ad leita nádar hjá Gudi, einúngis vegna Jesú Krists, sem allt í einu hefir fullnægju gjört fyrir alla menn; og med sinni pínu og dauda opnad öllum oss adgáng til ad ödlast fyrirgefningu syndanna, þegar vér snúum oss af hjarta og trúum á hann. Hebr. 4, 14—16. 7, 26. 27. 9, 24—28. 10, 19—31.

§. 8. a) Jesús Kristur tók sitt líf

aptur á þridja degi eptir sinn dauda, og uppreis úr grøfinni, eins og hann hafdi sjálfur ádur fyrirsagt; þar eptir var hann fjørutíu daga á jørdunni hjá vinum sinum og lærisveinum, hverra trú hann stadfesti med kenníngum og áminníngum.

Post. Gb, 1, 3—9. Eptir ad Jesús hafdi lidid pínuna, tédi hann sjálfan sig postulunum lifandi, med mørgum augljósum sannfæríngum, og lét þá sjá sig um fjørutíu daga, og taladi fyrir þeim um þá hluti, sem heyrdu til Guds ríki. Post. Gb. 3, 13—15. Matth. 16, 21. 17, 21. 20, 17. 27, 63.

1 Cor. 15, 3—7. Kristur, sem dó vegna vorra synda eptir Ritníngunum og vard grafinn, hann er upp aptur risinn á þridja degi, eptir Ritníngunum, og er sédur af Kefa og sídan af þeim tólf; því næst var hann sédur af meir enn fimm hundrudum brædra í einu, af hverjum flestir voru á lífi, þegar postulinn Páll skrifadi þetta.' Matth. 28, 1—20. Mark. 16, 1—16. Lúk. 24, 1—49. Jóh. 20, 1—31. 21, 1—25.

b) Eptir ad þeir fjørutíu dagar voru lidnir, var sá upprisni Jesús ekki lengur sýnilega nálægur á jørdunni, heldur fór hann upp til himna, ad ásjáandi læri-

sveinunum, eptir það hann hafði blessað þá, og gefið þeim makt og myndugleika til að útbreiða sinn lærdóm, meðal allra þjóða.

Lúk. 24, 50—52. Þegar Jesús hafði lokið tali sínu við Lærisveinana, fór hann með þá til Bethaníu, upplypti sínum höndum og blessaði þá; en það skeði í því hann var að blessa þá, að hann skyldist frá þeim og varð uppnuminn í himininn; en þeir tilbáðu hann og sneru aptur til Jerúsalem með miklum fögnuði. Matth. 28, 18—20. Mark. 16, 19. Post. Gb. 1, 9—11. Eph. 4, 8.

c) Þegar Jesús var til himins farinn, settist hann til hægri hliðar Föðurnum, hvað eð þýðir: að hann tók til að stjórna heiminum með sínum himneska Föður; svo að allar skynsemdarfullar skepnur eiga að játa, að hann sé þeirra herra, og eiga að tilbiðja hann.

Phil. 2, 9—11. Guð hefir hátt upphafið hann og gefið honum þá tign, sem er yfir öllum tignum, svo að fyrir Jesú tign skulu öll kné beygja sig, þeirra sem á himnum og á jörðu og undir jörðunni eru, og allar túngur skulu játa, að Jesús Kristur sé Drottinn, Guði Föður til æru. Eph. 1, 20—22.

d) Einkum er Jesús Kristur, að því

leiti, sem hann er Endurlausnari, síns safnadar andlegur konúngur og Drottinn, þared hann ber umhyggju fyrir, ad ætíd séu þeir á jördunni, sem játa hans dýrd, og ad vantrúin ekki geti med vélum eda ofríki eydt þeim; hann hagar því líka svo, ad hans lærdómur útbreidist medal manneskjanna, þar sem hann sér ad hann fær framgáng til sannrar nytsemi.

Jóh. 18, 36. 37. Jesús játadi fyrir Pílatusi: mitt ríki er ekki af þessum heimi, og samt er eg konúngur; en þar til eg fæddur, og þar til er eg í heiminn kominn, ad eg skuli bera vitni um sannleikann. Hverr, sem elskar sannleikann, sá heyrir mína rødd. Lúk. 1, 31—33. 2, 11. 2 Sam. 7, 12. Sálm. 45, 7. 110, 1—4. Es. 53, 11. 12.

Post. Gb. 5, 31. Gud hefir upphafid hann til sinnar hægri handar, til þess hann sé leidtogi og lausnari, ad veita Israel apturhvarf og syndanna fyrirgefníngu. Matth. 16, 17. 18.

c) Jesús er vor talsmadur hjá sínum himneska Fødur og bidur fyrir oss, ad sín endurlausn megi koma oss til gagns og nota, svo vér ekki fyrirførumst vegna vorra synda, heldur fáum nád til apturhvarfs, trúar og helgunar, og getum ødlast þá sáluhjálp, sem hann útvegadi oss.

1 Jóh. 2, 1. 2. Vér höfum talsmann hjá Födurnum, Jesum Krist þann réttláta, hverr ad er forlíkan fyrir vorar syndir, þó ekki einúngis fyrir vorar syndir, heldur og líka fyrir allrar veraldarinnar (syndir).

Hebr. 7, 24. Hann getur gjört þá ætíd sáluhólpna, sem hann lét koma til Guds, því hann lifir æfinlega til ad bidja fyrir þeim. Róm. 8, 34.

Merk: a) Med sinni upprisu og himnaför hefir Jesús sannad, svo ekkert verdur á móti haft, ad hann er sendur af Gudi, og er í sannleika Guds sonur, eins og hann sagdist vera. Matth. 12, 38—40. Róm. 1, 4.

b) Þared Jesús er upprisinn frá daudum og uppstiginn til himna, höfum vér nú mestu fullvissu um, ad Gud hefir álitid hans fridþægíngu fullgylda heiminum til endurlausnar; líka og, ad eptir þetta muni koma betra líf, og ad vorir líkamir muni ekki æfinlega verda ad eingu, heldur — þegar þar ad kemur — upprísa úr duptinu til óforgeingilegs lífs. Róm. 4, 25. 1 Cor. 15, 12—34.

c) Ef vér viljum hafa huggun af því, ad vér vitum, ad Jesús Kristur er vor andlegur konúngur og herra, þá eigum vér, eins og hollir og dyggir þegnar, ad heidra og elska hann og líka hlýda hans bodum; því þeir, sem ödruvísi lifa, meiga álitast eins og upphlaupsmenn í

hans ríki, og vænta þess að óhlýðni þeirra verði strossuð eptir makleglcikum. Matth. 7, 21—23. Lærdómurinn um Jesum Krist og hans friðþægíngu, er í stuttu máli útskýrður í annari grein Trúar=játníngarinnar í Fræðunum.

# Fimmti Kapituli.

## Um apturhvarf og trú.

§. 1. Jesús Kristur hefir ekki með sinni endurlausn gefið oss leyfi til að syndga; miklu heldur hefir hann skuldbundið oss til að forðast það illa, og kappkosta af fremsta megni að láta oss framfara í góðu.

Tít. 2, 11—14. Guðs náð, sem öllum mönnum er heilsusamleg, hefir byrst, og kennir oss að afneita óguðlegu athæfi og veraldlegum girndum, en lifa sparlega, réttvíslega og guðrækilega í heimi þessum, þar vér lifum í von um sælu og dýrðlega auglýsíngu hins mikla Guðs og vors Endurlausnara Jesú Krists, sem sjálfan sig gaf í dauðann fyrir oss, til þess hann endurleysti oss frá öllu ránglæti, og

hreinsadi oss, svo vér séum hans ágætt fólk, kostgæfid til gódra verka. Gal. 2, 17. 2 Cor. 5, 14. 15.

Merk: Hverr sem réttilega þekkir Jesú Krists endurlausn, sá upporfast þar af til þess meiri viðbjóðs á syndinni; því þegar vér athugum hverr Jesús Kristur var, og hvad mikid hann vard ad lída vegna vorra synda, þá er eins og afmálad sé fyrir vorum augum, hversu andstyggileg syndin sé, og sú tíd muni koma, ad vér verdum fyrir þúngu straffi, ef vér höldum áfram og bættum ekki ad syndga, þó vér vitum betur.

§. 2. Sérhverr, sem vegna Krists girnist ad fá adgáng til Guds nádar og eilífri sáluhjálp, á med sönnu apturhvarfi ad láta af syndunum, og med einlægri trú ad medtaka Jesum Krist, Guds Son, fyrir sinn Endurlausnara, sinn Lærimeistara og sinn Drottinn.

Lúk. 24, 47. Kristur skipadi: ad í sínu umbodi skyldi prédikast öllu fólki apturhvarf og syndanna fyrirgefníng. Post. Gb. 20, 21.

Jóh. 3, 36. Hverr sem trúir á Soninn hefir eilíft líf, en hverr sem ekki trúir á Soninn, skal ekki sjá lífid, því Guds reidi blífur yfir honum. Post. Gb. 10, 43. Hebr. 5, 9.

Merk: Sannarlegt ángur og tregi fyrir syndirnar verdur ad gánga á undan, þegar trúin

á Krist á ad vera folskvalaus. Því getur heldur einginn huggad sig vid Jesú Krists fridþægingu, nema sá, sem lætur af illu, og kappkostar ad fara dagvaxandi i því góda. Post. Gb. 2, 37—47. 3, 17—26.

§. 3. Til sannarlegs apturhvarfs útheimtist, ad vér med einlægri ydrun kommumst vid vorar ávirdingar, bidjum Gud audmjúklega fyrirgefningar á þeim, og alvarlega einsetjum oss ad betra meir og meir vort líferni.

2. Cor. 7. 10. Sú hrigd, sem er eptir Gudi, verkar apturhvarf til sáluhjálpar, hvers eingan ydrar. Lúk. 15, 21. 18, 13.

Post. Gb. 3, 19. Takid því sinnaskipti, og snúist, svo ydar syndir verdi afmádar. Sálm. 51, 3—23.

Merk: a) Manneskjan er optast fúsari á ad afsaka enn játa sínar ávirdingar, þess vegna mundi hún ekki heldur alvarlega ydrast syndanna, ef samvitskan kæmist ekki endur og sinnum vid af Guds orda kröptugum áminningum med samverkun heilags Anda; en þad stendur i sjálfra vor valdi, hvert vér eptir á viljum færa oss slikar advaranir i nyt og til frekari umþeinkingar, ellegar útrýma þeim úr hjartanu, og standa þannig á móti Guds nád, hvar af vér meir og meir forherdumst.

b) Manneskjan getur haft ángur af syndunum vegna hrædslu fyrir þeirra straffi; en einkanlega eigum vér ad knýast til ángurs fyrir syndirnar, af blygdun vegna vors vanþakklætis vid hinn góda og gædskuríka Gud, sem ekki einasta elur oss og vidheldur af einskærri nád, heldur og sérílagi hefir látid kunngjöra oss i sinu heilaga ordi þá miklu sælu, sem Kristur hefir oss útvegad, og þaradauki ekki heimtar annad af oss enn þad, sem augljóslega horfir til vors sanna gagns, og til ad afvenda vorri eigin fortøpun.

c) Þegar ángrid vegna vorra synda er svo einlægt, ad vér af alvøru fordumst þad ílla, sem vér þó drýgt hofum, annadhvert med þaunkum, ordum eda verkum, þá er oss ekkert takmark sett, hvad lengi þad skuli vara, eda hvad mikid þad skuli vera; Gud litur einúngis eptir, hvert vort ángur sé einlægt ellegar ekki.

§. 4. Sannarleg trú á Jesum Krist til sáluhjálpar, er innifalin í því, ad vér hofum þad traust og huggunar-athvarf til Jesú Krists vors Endurlausnara, ad þared hann med sinni pínu og dauda fridþægdi fyrir oss, muni Gud fyrirgefa oss vorar syndir, svo framarlega sem vér ydrumst þeirra af ollu hjarta, og einsetjum oss ad syndga ekki framvegis viljandi, heldur laga vorn

lifnad eptir Jesú Krists heilaga lærdómi, og hlýda honum, sem vorum réttum herra.

Eph. 3, 12. Vegna Jesú Krists vors Drottins, høfum vér djørfúng og adgáng til Guds, med trausti af trúnni á hann. Jóh. 6, 40.

Róm. 8, 33. 34. Hverr vill ásaka Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir. Hverr vill fordæma? Kristur er sá, sem dáinn er, já miklu meira, sem líka er upprisinn, situr vid Guds hægri hønd og bidur fyrir oss.

Merk: a) Pad heyrir til trúarinnar á Jesum ad vér séum vissir um, ad hann er í heiminn kominn til ad uppfræda og endurleysa syndugar manneskjur; þó er þetta ekki nóg til sannrar trúar, því sá getur líka verid sannfærdur um þetta, sem med sínu liferni afneitar honum í því ad hlýda ekki hans bodordum. Matth. 7, 21—23.

b) Vér verdum ad finna med sjálfum oss, hversu mjøg vér þurfum Guds nádar vid, ef vér viljum meta Krists endurlausn eins og vert er; því annars væri vor trú ekkert nema køld játning med vørunum; þess vegna er einúngis sanna trú ad finna hjá þeim ydrandi, sem þekkja hvad andstyggileg syndin er, og hafa innilega laungun eptir Guds nád vegna Krists. Matth. 9, 12. 13.

c) Trúin getur verid veik, medan hugskotid finnur ekki neina upplifgandi huggun af ad tileinka sér Jesú Krists fridþægingu, edur þá þad stundum ángr=

ast af hrædslu og efasemi; en hvilik trú er eingu ad sidur sønn og Gudi þóknanleg, þegar hún audsýnir sig med sannarlegri laungun eptir Guds náð vegna Krists, og kappkostar af fremsta megni ad gjora þad, sem Gud vill. Mark. 9, 24.

d) Sú trú er daud og ávaxtarlaus, sem ekki betrar hugarfarid, og ekki audsýnir sinn krapt i gudrækilegu liferni.

Sønn og lifandi trú á ad sýna sig kroptuga og verkandi i dygdafullu liferni. Jak. 2, 14—20.

§. 5. a) Vér getum ekki af eigin kroptum snúid oss og trúad, þared syndin hefir veikt oss, samt meigum vér ekki forsóma ad leggja allt kapp á vora sálar-betrun.

Róm. 8, 7. Ad stunda þad, sem spillt náttúra vill, er fjandskapur í gegn Gudi. — þar þad strídir móti hans vilja — því hún hlýdir ekki Guds løgmáli og getur heldur ekki gjørt þad. 1 Cor. 2, 14.

b) Heilagur Andi er ætid reidubúinn til ad efla vora betrun, og láta oss framfara i því góda med Guds ordi, sem hann hefir sjálfur inngefid þeim heilogu skrifurum.

1 Cor. 6, 11. Postulinn Páll ber Korintumønnum á brýn, ad nokkrir medal þeirra hafi verid lastafullir, en nú — segir hann — erud þér þvegnir, þér erud helgadir, þér erud rétt-

lættir í nafni Drottins vors Jesú, og af vors Guds Anda. Phil. 2, 13. Eph. 3, 16.

Hebr. 13, 21. Fridarins Gud tilbúi ydur til allra gódra verka, til ad gjøra hans vilja, og verki þad med ydur, sem honum er sjálfum þóknanlegt fyrir Jesum Krist.

c) Af réttri brúkun Guds orda fáum vér rétta þekkíngu á Guds vilja, og ødlumst krapt til ad laga vorn lifnad eptir þeim, ef vér ekki sjálfir stondum á móti nád þess heilaga Anda, sem í hugskotinu verkar med Guds ordi, og uppvekur í samvitskunni þær áminníngar, sem vér ekki megum nidurkefja.

2 Tím. 3, 15—17. Þú kannt heilaga Ritníngu, sem getur uppfrædt þig til sáluhjálpar med trúarlærdóminum um Jesum Krist. Øll heiløg Ritníng er innblásin af Gudi, og nytsamleg til lærdóms, til sannfæríngar, til uppfrædíngar í réttlætinu, svo ad Guds madur sé algjørr og til alls góds verks hæfilegur.

Merk: Til ad hafa Guds ord réttilega um hønd útheimtist, ad vér heyrum þad og lesum med gaumgæfni og einlægum ásetníngi til ad læra þad, oss til betrunar og sáluhjálpar. Þegar vér ekki þannig brúkum Guds ord, fær heilags Anda nád ekkert verkad í sálunni; Þared Gud, sem hefir gefid oss fullt vit og frjáls-

rædi, hverki vill né getur þvíngad oss til góds med þeirri makt, sem vér ekki getum móti stadid.

§. 6. Umvendt og réttrúandi kristin manneskja getur eptir því sem Gud hefir í sínu ordi lofad; verid sannarlega fullviss um, ad hún er hjá Gudi, vegna Krists, réttlát ordin, og ad hennar fyrri syndir ekki muni tilreiknast henni, heldur skuli straffid fyrir þær, vera henni aldeilis eptirgefid, þared Gud, vegna Krists, tileinkar henni, eins og hlýdnu barni og trúum þénara, aptur á mót sína nád og blessun.

Róm. 3, 24. 25. Vér verdum réttlættir án verdskuldunar af Guds nád, med þeirri endurlausn, sem Jesús Kristur hefir afrekad, hvern Gud tilsetti, ad hann skyldi vera sá nádarstóll, hvar leita ætti fyrirgefníngar á syndunum fyrir trúna á hans blód, edur á hans pínu og dauda.

2 Cor. 5, 21. Þann, sem ekki vissi af synd, hefir Gud gjört ad synd fyrir oss — edur í vorn stad látid fara med hann eins og sekan syndara — svo ad vér hans vegna yrdum réttlættir fyrir Gudi. Róm. 8, 1—4.

Merk: Í heilagri Ritníngu brúkast ýmislegir talshættir, til ad sýna hvernig til skuli gánga

hjá þeirri syndugu manneskju, sem betrast á af heilags Anda nádar verkunum.

a) Ritníngin talar um **Guds kollun** til mannanna, sem er i því innifalin: ad hann i sinu ordi gefur þeim tilefni til ad girnast þá endurlausn, sem Kristur hefir útvegad, og þar ad auk leitast vid med ödrum hætti, svo sem med þjáníngum og velgjorníngum, ad uppvekja þá til ad þeinkja um þeirra andlegt ásigkomulag. Matth. 9, 13. 11, 28. 1 Thess. 2, 12. Sálm. 119, 17. Róm. 2, 4.

b) Ritníngin talar um **upplýsíngu**, og vill þar med láta skiljast, ad heilagur Andi uppfrædi vorn skilníng med ordinu, svo vér fáum sanna þekkíngu um Guds rád og vilja, er vidvíkur syndugra manna betrun og endurlausn. Eph. 1, 18. Post. Gb. 26, 17. 18.

c) Med ordinu **endurfædíng**, gefur Ritníngin til kynna þad sælufulla ástand, sem kristin manneskja kemst i, þegar hún med sannri ydrun lætur af illu og med réttri trú á Krist fær lyst og laungun til góds, eda verdur ad annari og betri manneskju, því þar med er eins og hún fædist ad nýu, þared hennar sinnislag og hugarfar snýst frá illu til góds, eptir Guds vilja. 1 Pet. 1, 3. Jóh. 3, 3. 2 Cor. 5, 17.

d) Þad sem Ritníngin kallar **helgun**, er trúads kristins manns dagleg framfor i dygdum og gudhrædslu, sem eflist af samverkandi nád heilags Anda, med ydugleg ri brúkun Guds orda, bæn og

árvekni. 2 Thess. 5, 23. 2 Cor. 7, 1. Róm. 12, 1. 2.

Þridja grein Trúarjátníngarinnar í Frædunum, sýnir í stuttu máli, hvernig heilagur Andi leidir manneskjuna med sínum nádarverkunum og ordinu til sannarlegs apturhvarfs og ávaxtarsamrar trúar, á Jesum Krist. En í annari Bæninni í Frædunum uppörfumst vér til ad bidja um adstod heilags Anda, svo vér getum ordid sannir kristnir, er sýni sig verduga ad vera þegna í Krists nádarríki; og í Þridju Bæninni verdum vér minntir á þá hlýdni, sem vér erum Gudi um skyldugir, til ad audsýna med henni vora trú.

---

# Sjötti Kapituli.

## Um trúarinnar ávexti í heilögu líferni.

---

§. 1. Þar af á ad sjást hvort vor trú á Krist sé sönn og lifandi, ad hún verkar í hjartanu hatur til allra synda, og þarámóti kröptuga eptirlaungun til ad breyta eptir Guds vilja í öllum hlutum til ad þóknast honum.

Jak. 2, 17. 26. Sýn mér trú þína af verkum þínum; því eins og líkaminn er án andar daudur, svo er líka trúin daud, þegar hún er án verkanna.

Róm. 12, 9. Hafid andstygd á því sem vondt er, en haldid ydur fast vid hid góda. Post. Gb. 15, 9.

Merk: a) Vér getum ekki forþénad Guds nád og eilífa sáluhjálp, þar vor betstu verk eru ófullkomin, og Gud er sjálfur sá, sem gefur kraptana til ad framkvæma þau. Lúk. 17, 10.

b) Þad lítid gott, sem vér gjörum hér á jordunni med stórum vanmætti og breiskleika, getur ekki komid í samlíkingu vid þá ómetanlegu gledi, hverrar þeir gudhræddu meiga vænta í enu betra lifi. Þessvegna vill Gud einúig, ekki vegna verka vorra, heldur af nád sinni, gjöra oss sáluhólpna, vegna vorrar trúar á Jesum Krist. Róm. 6, 23. Eph. 2, 8. 9.

c) Þad er öldúngis naudsýnlegt, ad vér breytum eptir Guds vilja, þó vér ekki þar med eigum skilid ad fá hans nád, til þess ad trúin sýni sinn krapt í gódum verkum, því annars getum vér ekki ordid hæfilegir til ad taka á móti þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir útvegad oss. Jak. 2, 14. Róm. 2, 7. 10.

§. 2. Sérhvad þad, sem Gud hefir bodid oss ad taka vara á, er vor skylda.

Í løgmálinu, sem út var gefid á fjallinu Sínai eru þau almennilegu skylduverk í stuttu máli fyrirskrifud, og innifalin í þeim tíu bodordum, sem Gud baud Mósesi ad rita á tvær steintöblur.

2 Mós. b. 20, 1—17. Gud taladi øll þessi ord og sagdi: 1) Þú átt ekki ad hafa annarlega Gudi fyrir mér. 2) Þú átt ekki ad leggja nafn Drottins Guds þíns vid hégóma, því Drottinn mun ekki láta þann verda óstraffadan, sem misbrúkar hans nafn. 3) Minnstú ad halda hvíldardaginn heilagan. 4) Heidra fødur þinn og módur þína, svo þú lifir lengi í landinu. 5) Þú átt ekki ad slá í hel. 6) Þú átt ekki ad drýgja hórdóm. 7) Þú átt ekki ad stela. 8) Þú átt ekki ad bera falskan vitnisburd á móti þínum náúnga. 9) Þú átt ekki ad girnast hús þíns náúnga. 10) Þú átt ekki ad girnast þíns náúnga ektakvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustukvinnu, ellegar hans uxa, ellegar hans asna, ellegar nokkud, sem heyrir þínum náúnga til.

Merk: Guds løgmál, sem er innifalid í þeim tíu bodordum, er ad sønnu einkanlega fyrirskrifad Gydíngum, en þad inniheldur samt þau skylduverk, sem sérhver manneskja á ætíd ad gefa gætur ad, því þau þéna til ad efla

bædi vort eigid og annara sanna gagn. Róm. 3, 31. 13, 8. 9.

§. 3. Sá er tilgángur allra Guds bodorda, eptir Krists eigin útleggíngu, ad efla og stadfesta hjá manneskjunum framkvæmdarsama elsku til Guds, sjálfra þeirra og náúngans.

Matth. 22, 37—40. Jesús sagdi: Þú átt ad elska Drottinn Gud þinn af øllu hjarta, allri þinni sálu og øllu þínu hugskoti, þad er hid fyrsta og helsta bodord; og þessu líkt er hitt: þú átt ad elska náúnga þinn eins og sjálfan þig. Í þessum tveimur bodordum er innifalid allt løgmálid og spámennirnir. Róm. 13, 10.

Merk: Þad er ekki nóg, ad vér einúngis eptir vorn náttúrufari gjørum eitt eda annad gott, sem kann ad vera oss gedfelt; ekki heldur er þad sannarlegt gódverk, þó vér gjørum gott einúngis til ad fá hrós hjá mønnum, edur af ótta fyrir straffi og ofsóknum, ef þad væri ógjørt látid. Oss byrjar i øllu, sem vér gjørum, ad hafa þann tilgáng, ad audsýna kjærleikann. Gal. 5, 6. 1 Jóh. 3, 23.

## A) Um skylduna vid Gud.

Vér eigum ad dýrka Gud, eins og vorn skapara, yfirherra, stærsta velgjörara og elsku ríkasta födur, bædi innvortis í sálunni, med vorum þaunkum og girndum, og líka útvortis, med ordum og athöfnum.

1 Cor. 6, 20. Þér erud dýrú verdi keyptir, vegsamid þessvegna Gud med ydar líkama og med ydar öndu, sem Gud á. Mal. 1, 6.

Merk: Vér eigum einlæglega ad dýrka Gud, svo vér ekki einúngis bidjum hann, lofum hann og þökkum honum med ordunum, edur audsýnum honum útvortis lotníngu, heldur byrjar oss líka einkum ad audmýkja oss fyrir honum í hjartanu, óttast hann og elska, líka sýna lyst og laungun í öllu voru framferdi til ad breyta eptir hans vilja, því annars verdur vor Gudsdýrkan ad hræsni, sem fyrir þeim alvísa og heilaga Gudi, er mesta andstygd. 1 Sam. 15, 22, 23. Es. 1, 11—18. Matth. 6, 1—18. 23, 13—33. Mark. 4, 1—25.

---

### I. Innvortis Gudsdýrkanin.

§. 1. a) Vér eigum ad tilbidja Gud einan, því hann er vor skapari og sá einasti og sanni Gud.

Matth. 4, 10. Jesús sagdi: Drottinn Gud þinn áttú ad tilbidja og dýrka hann einan. Sálm. 99, 5.

b) Hverr, sem réttilega tilbidur Gud, á med audmjúkri lotníngu ad vidurkenna hans allrastærstu fullkomlegleika, halda hann fyrir hid hæsta góda, og líka vid sérhvert tækifæri audsýna í verkunum, ad hann virdir Gud yfir alla hluti fram.

Sálm. 99, 5. Upphefjid Drottinn vorn Gud, og tilbidjid fyrir hans fótskør, því hann er heilagur!

§. 2. a) Vér eigum ad óttast Gud, því hann er heilagur og réttlátur.

Préd. 12, 13. Ottast þú Gud og haldtú hans bodord, því þad ber øllum mønnum ad gjøra. Post. Gb. 10, 35.

b) Gudhrædslan á ad sýna sig í því, ad vér tøkum oss umhyggjusamlegan vara fyrir øllu því, sem vér høldum Gudi sé á móti.

Ordsk. b. 16, 6. Af ótta fyrir Drottni fordast menn hid illa.

c) Vér eigum ekki ad óttast Gud eins og óviljugir þrælar, af kvída fyrir straffinu,

heldur eins og **hlýdin børn**, því hann er svo góður og gædskuríkur fadir.

Róm. 8, 15. Þér hafid ekki medtekid þrældóms lunderni, ad þér þyrftud aptur ad verda hræddir, heldur hafid þér feingid óskabarna hugarfar, af hverju vér køllum: Abba, elskulegi fadir! 1 Mós. b. 39, 9.

§. 3. a) Vér eigum ad **elska Gud yfir alla hluti fram**, því hann er vor stærsti velgjørari, og af Kristi fridþægdur fadir.

1 Jóh. 4, 19. Látum oss elska hann, því hann elskadi oss ad fyrra bragdi. 1 Jóh. 5, 1.

b) **Elskan til Guds útheimtir**, ad **hugurinn innilega** gledji sig af honum, og finni hjá sér stærstu laungun eptir ad **þóknast honum**, med því ad breyta eptir hans vilja.

1 Jóh. 5, 3. Í því er elskan til Guds innifalin, ad vér høldum hans bodord, en hans bodord eru ekki þúng. Sálm. 18, 2.

§. 4. a) Vér eigum ad **hlýda Gudi**, því hann er ekki einúngis vor ædsti, heldur og líka sá visasti og betsti yfirherra.

Jer. 11, 4. Drottinn sagdi: Hlýdid mér og gjørid allt, sem eg hefi bodid ydur, þá skulud

Þér vera mitt fólk, og eg skal vera ydar Gud. Post. Gb. 5, 29.

b) Hlýdni vid Gud er í því innifalin, ad vér ætíd med fúsum vilja leggjum allt kapp á ad laga vort sinnislag og framferdi eptir Guds vilja, til ad þóknast honum, og alvarlega taka oss vara fyrir því, ad brjóta hans bodord af ásetníngi.

Sálm. 143, 10. Drottinn! kenn þú mér ad gjøra þad sem þú vilt, því þú ert minn Gud. 1 Pét. 1, 14. 15.

§. 5. a) Vér eigum ad reida oss uppá Gud, því hann bædi vill og getur gefid oss tímanlega, andlega og eilífa velferd.

1 Pét. 5, 7. Kastid allri ydar áhyggju uppá Drottinn, því honum er annt um ydur. Sálm. 55, 23.

d) Ad reida sig uppá Gud er sama sem ad treysta honum, og er innifalid í því, ad vér séum fullkomlega sannfærdir um ad Gud, vegna Jesú Krists, vilji gjøra oss hluttakandi í øllu því góda, sem hann hefir lofad oss í sínu ordi, líka ad hann, eptir sinni alvísu rádstofun, vilji veita oss sína hjálp med betsta máta og á hagkvæmustu tíd.

Sálm. 146, 5. 6. Sæll er sá, hvers hjálp

Jákobs Gud er, sá sem hefir stadfasta von til Guds, sem gjørdi himininn og jørdina og sjóinn og allt þad, sem er í þeim; til hans, sem heldur trygd æfinlega. Jer. Harmagr. 3, 25. 26. Róm. 8, 32.

---

## Af øllu þessu fylgir þá framvegis.

§. 6. Vér meigum ekki tilbidja neitt annad í stadinn fyrir sannan Gud, hverki eingla, né helga menn, né sól, né túngl, né bilæti, ellegar neitt annad þvilíkt, og ekki heldur reida oss uppá þad, í stadinn fyrir ad setja vort trúnadartraust til þess sanna Guds, því hann einúngis er vor Drottinn og Skapari; annars syndgum vér á móti fyrsta bodordinu og gjørum oss seka í afgudadýrkun.

2 Mós. b. 20, 3. 4. Drottinn sagdi: þú átt ekki ad hafa annarlega Gudi fyrir mér. — Þú mátt ekki smída þér neina úthøggna eda annarsslags mynd eptir því, sem er á himnum uppi, ellegar á jørdunni nidri, ellegar í vøtnunum undir jørdunni. — Þú átt ekki ad tilbidja edur dýrka þad. Es. 42, 8. Post. Gb. 17, 29.

§. 7. Vér meigum ekki elska sjálfa oss, ellegar neitt annad meir enn Gud edur jafnt Gudi; ekki heldur meigum vér treysta

uppá sjálfa oss, adra menn ellegar adra hluti, meir enn uppá Gud, vegna þess hann einn er vor almáttugi og stærsti velgjörari.

Jer. 17, 5. Svo sagdi Drottinn: bölvadur veri sá madur, sem treystir uppá manneskjuna og hefir holdid fyrir sinn arm — ellegar heldur ad sér sé óhætt med vanmáttugrar manneskju varatekt — og hvers hjarta víkur frá Drottni.

Ordsk. b. 3, 5. Treystu Drottni af öllu þínu hjarta, en reiddu þig ekki fast á þitt hyggjuvit.

§. 8. Vér eigum daglega ad strída móti þeim syndsamlegu girndum, sem Gudi eru á móti, og aldrei brjóta hans bodord af ótta fyri mönnum, edur elsku til þeirra, því hann er sá heilagur Gud, hvern vér eigum ad óttast, og líka sá gódur og vísdómsfullur Drottinn, sem vér eigum ad elska og hlýda framyfir alla hluti.

1 Jóh. 2, 15—17. Elskid ekki veröldina og ekki þá hluti sem í henni eru; ef nokkur elskar veröldina, þá er elskan til Födursins ekki í honum; því allt þad, sem í veröldinni er, sem er lyst holdsins, fýsn augnanna og drambsamt líferni, þad er ekki af Födurnum, heldur af

veröldinni. Veröldin forgeingur og hennar lystíngar, en sá sem gjörir eptir Guds vilja, blífur ad eilífu.

Ordskv. b. 1, 10. Son minn! þegar illir skálkar lokka þig, þá fylg þeim ekki.

§. 9. Vér eigum ad audsýna vorum náúnga einlæga elsku, til merkis um, ad vér án yfirdrepskapar elskum Gud, sem vill ad kærleikurinn sé eins ríkur hjá oss, eins og hann er hjá sjálfum honum; þaradauki eigum vér ad leggja kapp á, ad breyta eptir Guds vilja í öllum hlutum.

1 Jóh. 4, 21. Þetta bodord höfum vér af honum: ad hverr sem elskar Gud, hann á líka ad elska sinn bródur. 1 Jóh. 3, 17. 18. 4, 7—13.

1 Jóh. 2, 5. Hverr, sem hans ord vardveitir, í honum er sannarlega elskan til Guds fullkomin. Jóh. 15, 14.

Merk: Þau skylduverk, sem vidvíkja innvortis Gudsdýrkun, eru í stuttu máli tilgreind í Lúthers útleggingu yfir fyrsta Bodordid í Frædunum.

---

## II. Utvortis Guþsdýrkanin.

§. 1. a) Vér eigum að lofa og vegsama Guð, því hann er sú fullkomnasta og æðsta vera.

Sálm. 72, 18. 19. Lofaður veri Drottinn Guð, Israels Guð! hann sá einn gjørir dásemdarverkin; blessuð sé hans dýrðarfulla hátign að eilífu, og øll lønd uppfyllist með hans dýrkun!

b) Guþ lofast og vegsamast, þegar vér annaðhvert með bænum, sálmum eður samtali við aðra, hrósum Guðs ypparlegu eiginlegleikum og miklu dásemdarverkum af klokku hugarþeli, sem fullt er af heilagri lotníngu fyrir honum.

Sálm. 145, 3. 4. Mikill er Drottinn og mjøg loflegur, hans makt er órannsakanleg; sérhver kynslóð mun fyrir annari hrósa þínum verkúm, Drottinn! og kunngjøra þitt veldi.

§. 2. a) Vér eigum að þakka Guði, því hann veitir oss svo mikla velgjørnínga, og auðsýnir oss svo mikla náð vegna Jesú Krists.

Eph. 5, 20. Þakkið ætíð Guði Føður fyrir alla hluti, í nafni vors Drottins Jesú Krists. 1 Thess. 5, 18.

b) Ef vér eigum að géta þakkað Guði

réttilega, þá ber oss ad kannast vid og audmjúklega játa, ad Guds mikla miskunsemi vid oss er lángtum meiri enn vér hofum tilunnid, og þaradauki eigum vér ad færa oss hans velgjørninga réttilega í nyt, eins og hann hefir tilætlad.

Sálm. 118, 1. Þakkid þér Drottni, þvíad hann er gódur, og hans miskunsemi varir eilíflega. Sálm. 105, 1.

§. 3. a) Vér eigum ad bidja Gud og ákalla hann, þvi hann einn rædur fyrir vorri tímanlegri og eilífri velferd, þar Kristur, vor talsmadur, hefir einnig opnad oss adgáng til hans, svo sem vors gædskuríka og elskufulla Fødurs.

Lúk. 11, 9. Jèsús sagdi: Bidjid þá mun ydur gefast; leitid þá munud þér finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda Sálm. 50, 15. 145, 18 — 19.

b) Þad heitir bæn og ákallan, þegar vér framberum fyrir Gud, annadhvert í huganum edur med munninum vora laungun eptir einhverju gódu, sem oss er lofad í hans ordi, og sem oss sýnist naudsýnlegt til vorrar eigin edur annara velferdar.

1 Jóh. 5, 14. Þessi er sú djørfúng, sem

vér høfum til hans, ad ef vér bidjum um nokkud eptir hans vilja, þá heyrir hann oss.

§. 4. Þared Sunnudagurinn er tilskikkadur til opinberrar Gudsdýrkunar, þá á sérhverr kristinn madur ad fara til kirkju, sér og ødrum til uppbyggingar af Guds orda heyrn og lestri; líka uppbyggingar af því, ad lofa Gud og þakka honum sameiginlega med ødrum sínum samkristnum, svo þeir innbyrdis stadfestist í dygd og gudhræddslu; og frá því á ekkért ad hindra oss, nema sjúkdómar, eda ønnur þvílík forføll, sem ekki verdur hjá komist.

2 Mós. b. 20, 8. Drottinn sagdi: minnstú ad halda helgan hvíldardaginn. Lúk. 11, 28. Cól. 3, 16. Látid Krists ord búa ríkuglega medal ydar, svo ad þér kennid og áminnid ydur sjálfa innbyrdis med allskonar vísdómi, og syngid fagra sálma, lofsaunga og andleg kvædi fyrir Drottni í ydar hjørtum. Hebr. 10, 25.

---

Hér af fylgir enn fremur:

§. 5. a) Vér meigum hverki brúka Guds nafn gálauslega né athugalaust,

allrafist vanheidra þad med nokkursslags misbrúkun, miklu heldur erum vér skyldug- ir til ad lofa og vegsama Gud.

2 Mós. b. 20, 7. Drottinn sagdi: Þú átt ekki ad leggja nafn Drottins Guds þíns vid hégóma, því Drottinn mun ekki láta þann óstraffadan, sem misbrúkar hans nafn.

b) Guds nafn vanheidrast med ad formæla, þegar vér annadhvert í Guds eda Krists nafni óskum ills sjálfum oss eda odr- um. Slíkar formælingar geta og sked med mørgu ødru móti, sem auglýsir allt- eins blygdunarlaust sinnislag, er ekki svífist neins í Guds allraheilogustu nálægd, né gef- ur gaum ad, hversu mjøg hver ein manneskja á ad elska sjálfa sig og náúngann.

Jak, 3, 10. Af sama munni framgeingur bædi blessan og bølvan; brædur mínir! þetta má ekki svo til gánga. Róm. 12, 14.

c) Guds nafn vanheidrast med ad sverja, þegar einhverr í daglegu tali gálaus- lega vitnar til Guds eda Krists, til ad stad- festa þar med ord sín.

Matth. 5, 34—37. Þér skulud øldúngis ekki sverja, en ydar ræda skal vera já, þegar

játa skal, og nei þegar neita á, því hvad sem þar er framyfir er vondt.

§. 6. a) Þegar vér eigum opinberlega ad sverja, meigum vér ekki gleyma því, ad sá alvísi Gud, hvern vér köllum til vitnis, er bædi réttlátur og heilagur Gud, sem hatar allt óhreinlyndi, og ad hann mun hardlega straffa þá, sem sverja ránglega, því þeir vanbrúka hans nafn til ad hylja med illsku og ránglindi.

2 Mós. b. 20, 16. Drottinn sagdi:. Þú átt ekki ad bera falskan vitnisburd á móti þínum náúnga.

Sach. 5, 4. Eg lét bølvun útfara — segir Drottinn Zebaoth — svo hún komi yfir þjófsins hús, og þess, sem sver ránglega vid mitt nafn. Mal. 3, 5.

b) Menn sverja eid eptir yfirvaldsins skipun, stundum til stadfestíngar uppá, ad vér skulum ekkert segja edur vitna annad enn þad, sem vér vitum fyrir víst ad satt er; og stundum til fullvissu um, ad vér viljum trúlega lifa eptir því, sem oss er fyrirsett og vér høfum undirgeingist.

Hebr. 6, 16. Manneskjurnar sverja vid hann, sem er ædri enn þeir sjálfir, en sá eidur gjørir

enda á allri þrætu til að fá fullvissu. 5 Mós. b. 6, 13.

c) Hverr, sem fremur meinsæri eða sver ránglega, getur álitist ekki einúngis eins og blygðunarlaus guðlastari, vegna þess hann manar hins alvísa Guðs réttlæti móti sér, heldur og líka eins og fjandmaður sinna samkristinna, hverra velferð og æru hann opt spillir, svo sá saklausi verður fyrir hallanum, en hinn seki sleppur óstraffaður, og fær aptur tækifæri til að koma meiru illu til leiðar.

1 Tím. 1, 10. Postulinn Páll leggur meinsærismenn að jöfnu við morðíngja og vestu illvirkja.

§. 7. Vér meigum ekki fara með galdur, sem er hjátrúar- og heimsku-full vanbrúkun á Guðs orði, til að fremja kukl eða særa, ellegar til annara þvílíkra heimskulegra fyrirtekta, af rángri ímyndun um, að menn með þessu geti læknað manneskjur eða fénað, sýnt hver stolið hafi, varnað tjóni og ólukku, eða annað þvíumlíkt.

5 Mós. b. 18, 10—12. Einginn á að finnast hjá þér, sem fer með spádóma, eða er dagveljari, ellegar tekur mark á fuglakvaki, elleg-

ar er galdramadur, edur særíngarmadur, ellegar fer til spásagnarmanna, ellegar útþýdir fyrirburdi, ellegar leitar frétta af framlidnum, því hverr, sem þvílíkt gjørir, er Drottni andstyggilegur.

§. 8. a) **Vér meigum ekki vanhelga hvíldardaginn med ónaudsynlegri vinnu,** því þann dag eigum vér sérilagi, eptir Guds bodi, ad halda heilagan med andakt og gudrækilegum umþeinkingum.

Ps. 95, 1. 2. Komid! látum oss med gladværd lofsíngja Drottni! látum oss af fognudi hátt lofsíngja vorum volduga Frelsara! látum oss koma fyrir hans ásjónu med þakkargjørd.

b) Pad er sanngjarnlegt og Guds vilja samkvæmt, ad **Sunnudagurinn** sé mønnum og skepnum til **hvíldar** og endurlífgunar eptir vinnu þeirra; þess vegna kallast líka þessi dagur, sem kristnir menn halda heilagan í Krists upprisu minníngu, enn þá hvíldardagur.

2 Mós. b. 23, 12. Sex daga skaltú verk þitt vinna, en sjøunda daginn áttú ad hafa fyrir hvíldardag, svo ad þinn uxi og þinn asni geti fengid hvíld, og þinnar ambáttar sonur og sá framandi geti endurnært sig. 2 Mós. b. 20, 8—11.

Merk: Skylduverkin, sem vidvíkja útvortis Guds-
dýrkun, eru stuttlega útmálud í ødru og þridja
Bódordi Frædanna.

---

## B) Um skylduna vid sjálfa oss.

Vér eigum ad elska sjálfa oss, og einkan-
lega ad láta oss vera annt um vorrar sálar
velferd; líka eigum vér ad stunda eptir
sannarlegu gagni líkama vors; sem og
ad efla med leyfilegum hætti vora tíman-
lega velferd, eins og samkvæmt er Guds
ordi og vilja.

Matth. 6, 33. Jesús sagdi: Leitid fyrst
Guds ríkis og þess réttlætis, sem honum er
þóknanlegt, þá munud þér fá í vidbót allt,
sem þér medþurfid.

Merk: Manneskjan elskar sig ekki sjálfa rétti-
lega, þegar hún sækist einúngis eptir ad
sedja sínar jardnesku girndir, án þess ad hirda
um sína sáluhjálp, eda gefa gætur ad því, sem
hún er bædi Gudi og ødrum mønnum skyldug um.

---

### I. Umhyggja fyrir sálunni.

§. 1. Vér eigum ad láta oss vera umhug-
ad um ad vor skynsemi upplýsist meir og

meir med skynsamlegri þekkingu, sérdeilis um Guds vilja og hans rád til vorrar sáluhjálpar.

2 Pét. 3, 18. Vaxid í vors Drottins og Endurlausnara Jesú Krists nád og þekkingu. Ordsk. b. 2, 10 11. 1. Cor. 14, 20.

§. 2. Vér meigum ekki láta vorn vilja stjórnast af neinum vondum tillhneigingum, heldur eigum vér af fremsta megni ad kappkósta ad laga þær eptir því, sem vorri skynsemi sýnist ad vera rétt og tilheyrilegt, eptir Guds orda reglu.

Ordk. b. 16, 32. Sá sem stjórnar gedi sínu, er betri enn sá, sem yfirvinnur borgir. Gal. 5, 24.

§. 3. Vér meigum ekki afsaka vorar ávyrdingar, heldur keppast eptir, eins og Gud hefir látid Krist kenna oss, ad sjá æ meir og meir vid þeim og afleggja þær.

2. Cor 7, 1. Med því vér høfum þvilíkt fyrirheit, mínir elskanlegir! þá látum oss hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og høldum áfram í helguninni med gudhrædslu. 1 Jóh. 1, 6.

§. 4. Vér eigum med gaumgæfni ad vaka

yfir samvitsku vorri, svo vér ekki vísvitandi ofþýngjum hana með neinni synd.

Post. Gb. 24, 16. Postulinn Páll sagði: Eg æfi sjálfan mig í að hafa jafnan óskérdta samvitsku fyrir Guði og mönnum.

§. 5. Vér eigum opt að þeinkja um dauðann, sem fljótt getur að óvörum yfirfallið oss, þó svo, að vér hverki skelfumst af honum, ellegar lifum með sorg og óróssemi, heldur á það að þéna til þess, að vér því betur undirbúum oss í sönnum Guðs ótta til sáluhjálplegrar burtfarar.

2 Cor. 5, 8. 9. Vér erum hughraustir og höfum miklu meiri lyst til að vera fjarlægir frá líkamanum og heima hjá Drottni; þessvegna kappkostum vér líka, hvert sem vér erum heima eða fjærverandi, að vera honum þóknanlegir. Sálm. 90, 12. Phil. 1, 23.

---

## II. Umhyggja fyrir líkamanum.

§. 1. Vér meigum hverki með ásetningi taka sjálfir af oss lífið, sem er sú ypparsta gáfa, er Guð hefir gefið oss, né viljandi skaða vora limu eður heilsu, því þar með reynum vér til með heimskulegri ofdirfsku að

taka ráðin af Guði, sem einsamall hefir vald yfir lífi og líkama manneskjunnar, en sviptum náúngann þeirri aðstoð, sem hann með rétti mátti af oss heimta; þaraðauki breytum vér svo grimdarlega við sjálfa oss, að ekki finnast dæmi til slíks meðal ólmustu villudýra.

Róm. 14, 7. 8. Einginn af oss hefir ráð á að lifa eður deya eptir vild sinni, því hvert sem vér lifum, þá erum vér á Drottins valdi, ellegar deyum, þá erum vér eins í Drottins valdi, það er að skilja: hvert sem vér lifum ellegar deyum, þá á Drottinn ráð yfir oss. 1 Cor. 6, 19. 20. 1 Sam. 31, 4. 2 Sam. 17, 23. Matth. 27, 5.

§. 2 Vér eigum að forðast allt óhóf í mat og drykk, sem einúngis spillir heilsunni og eyðir vorri formeigun, en gjörir oss óhæfilega bæði til að lofa Guð og líka vinna það, sem oss ber að gjöra.

Lúk. 21, 34. Jesús sagði: Varið yður sjálfa, að yðar-hugskot aldrei ofþýngist af ofáti eður ofdrykkju. Róm. 13, 13.

Gal. 5, 21. Ofdrykkja og ofát teljast með þeim hlutum, um hverja Postulinn Páll segir: að þeir slíkt gjöri, muni ekki ødlast Guðs ríki. Orðskv b. 23, 20. 21.

§. 3. Vér eigum ad halda oss frá hórdómi og allsslags lauslæti, bædi innvortis í þaunkunum og útvortis med verkinu; því þar af spillist líkaminn og sálin saurgast, svo hún verdur óhæfileg til ad hugsa um nokkud gott, og missir alla laungun eptir dygd og Guds otta, en audsýnir því frekar sínar saurugu girndir í ordum og vidmóti, ødrum til hneixlis.

2 Mós. b. 20, 14. Drottinn sagdi: Þú átt ekki ad drýgja hór. Matth. 5, 27. 28.

1 Thess. 4, 3—5. Sá er vilji Guds, ad þér heilagir séud og fordist frillulifnad, svo hverr og einn stundi ad halda sínum líkama í hreinlífi og sóma, en ekki girndarbruna eins og heidíngarnir. sem ekki þekkja Gud.

Eph. 5, 3—5. Eptir sem heiløgum hæfir, á hverki frillulífi, né nokkurskonar óhreinleiki edur ágirni, svo mikid sem nefnast medal ydar, né blygdunarleysi, né fíblslegt hjal, edur gárúngaháttur, því slíkt er ósæmilegt, heldur miklu fremur þakkargjørd; því þad vitid þér, ad einginn, frillulífis madur, edur óhreinn, edur ágjarn, sem er skurdgoda dýrkari, hefir hlutskipti í Krists og Guds ríki. 1 Cor. 6, 15—20.

Merk: Í Frædunum er vid sjøtta Bodordid

stutt útskýring um kristilegt líferni; og í sjöttu Bæninni finnst upporsan til ad bidja Gud um nád og styrk, ad standa á móti þeim freistingum, sem í þeim efnum kynnu ad mæta oss.

---

## III. Umhyggja fyrir vorri tímanlegri velferd.

§. 1. a) Vér eigum ad kappkosta ad efla vora velgeingni, bædi med ástundun í voru rétta kalli og embætti, og med forsjállegri sparsemi, svo vel sjálfum oss til gagns, sem og líka til ad geta hjálpad ödrum, er vidþurfa.

Post. Gb. 20, 34. 35. Postulinn Páll segir til Ephesus-manna: Þér vitid sjálfir, ad þessar hendur hafa fyrir mér unnid til minnar naudþurftar og þeirra, sem med mér voru. Í öllu sýndi eg ydur, ad svo byrjar oss ad vinna og veika ad annast, og minnast orda Drottins Jesú, þar hann sagdi: sælla er ad gefa enn þyggja. 1 Tím. 6, 17. 18.

b) Í því ad stunda gagn vort, eigum vér ad varast ólöglegan ávinníng eda ágirnd; og ekki sækjast eptir audæfum, sem opt misbrúkast til ofmetnadar og óhófs.

1 Tím. 6, 9. 10. Þeir, sem ríkir vilja verda, falla í freistni og snörur og margskonar

heimskulegar og skadnæmar girndir, sem mann-eskjunum sökkva í eydileggingu og töpun, því ágirndin er rót alls ills. Lúk. 12, 15. 1 Cor. 6, 10.

§. 2. a) Vér eigum ad keppast eptir ad ávinna oss **heidur**, vera í afhaldi og teljast **trúverdugir** af vorum medbrædrum, þó samt ekki med ödru enn **rádvendni** og **kostgæfni** í voru **rétta kalli** og **embætti**.

Phil. 4, 8. Kærir brædur! hvad sem satt er og sidsamlegt, hvad réttvíst er, hvad skírlíft er og ástsamlegt, hvad sem er gott af-spurnar, hvad dygdugt er, hvad hrósvert er, hugsid þar eptir.

b) Þótt vér höfum odlast allan þann heidur, sem vér æskja kynnum, meigum vér samt ekki falla til **metnadar** edur **dramb-semi**, heldur ætíd stunda kristilegt **lítillæti**, því vér eigum ad vita, ad alla hluti höfum vér af Gudi þegid, og ad oss yfirsést optlega svo vér þurfum fyrirgefningar vid.

Gal. 5, 26. Látum oss ekki sækja eptir hé-góma hrósi, og hverki ögra hverr ödrum, né öfunda hverr annan. Róm. 12, 10.

1 Pét. 5, 5. Verid skrýddir med lítillæti, því Gud mótstrídir dramblátum, en lítillátum gefur hann nád. Matth. 23, 12. Ordskv. b. 29, 23.

§. 3. a) Vér meigum njóta ánægju í þessu lífi, af því ad brúka réttilega þá mörgu gódu hluti, sem Gud hefir sínum sköpudu skepnum til gagns og gledi gefid; líka höfum vér mikla ánægju af vinnu vorri, þegar vér tilbærilega og med gladværu sinnislagi gjörum hana.

Ps. 31, 8. Gledja skal eg mig, Drottinn! og vera gladvær af þinni miskunsemi. Phil. 4, 4. Ordskv. b. 17, 22.

b) Í vorri gledi eigum vér ad taka oss vara fyrir öllu því, sem strídir á móti gódri sidsemi, edur því, sem Gud hefir bodid í sínu ordi, og ekki álita hana svo sem helsta tilgáng vinnu vorrar, heldur eins og ávöxt af henni.

1 Cor. 7, 31. Þeir, sem brúka þennan heim, eiga ad vera eins og þeir, sem ekki misbrúka hann.

§. 4. a) Vér eigum ad andsýna oss þolinmóda í mótlætinu, svo vér hverki orvæntum né látum til vor heyra výl eda harmatölur, heldur séum ánægdir med þad, sem Gud vill vera láta, í vissri von um, ad hann ekki uppáleggi oss þýngri byrdi, enn hann

sjálfur vill gefa oss krapta ad bera, og trúum stadfastlega, ad eptir hans tilætlun skuli þetta audstreymi þéna oss til gagns og góda.

Hebr. 10, 35. 36. Kastid ekki burt ydar örugga mód, hverr mikil laun mun ødlast; því þér þurfid á stødugllyndi ad halda, svo ad nær þér hafid gjørt Guds vilja, fáid ad ødlast þad, sem ydur hefir verid lofad. Róm. 8, 18.

b) Vorar þjáníngar geta opt orsakast med ýmsu móti af sjálfum oss, en sá alvísi Gud lætur oss þær ad høndum koma til þess vér athugum vora bresti, betrum vorn lifnad, holdum voru sinni því meir frá hégóma veraldarinnar og lærum ad leita vorrar kærustu gledi i því ad halda oss til hans med bæn og andakt.

Hebr. 12, 5. 6. Minn son! vird ekki lítils týptun Drottins og ørvýlnast ekki þá hann ávítar þig; því hvern, sem Drottinn elskar, þann agar hann. Ps. 119, 7. Róm. 5, 3—5.

§. 5. Vér eigum ad fordast ydjuleysi, hvert ad er orsøk til mikils ills, og taka oss vara fyrir ad vera ødrum til þýngsla; þarámót eigum vér med kostgæfilegri ydni og ástundun, hverr i sínu standi, ad leita vorrar atvinnu, því Gud hefir gefid oss

kraptana til þess, ad vér skulum brúka þá, og efla þar med vort eigid og annara gagn.

1 Thess. 4, 11. 12. Vér áminnum ydur, kærir brædur! ad þér kostgæfid ad lifa í spekt og ydvart eigid ad stunda, og ad vinna med ydar eigin höndum, eins og vér höfum bodid ydur, svo ad þér getid sómasamlega umgeingist þá, sem ekki eru af söfnudinum, og ad þér séud uppá eingan komnir. 2 Thess. 3, 11. 12. 1 Pét. 4, 11.

---

## C) Um skylduna vid náúngann.

Vér erum skyldugir ad elska vorn náúnga eins fölskvalaust og sjálfa oss, þessvegna eigum vér ad breyta svo vid hann, eins og vér viljum ad hann breyti vid oss. Þar fyrir eigum vér ad bera umhyggju fyrir hans sálu, hans líkama, og hans tímanlegu velferd.

Matth. 7, 12. Jesús sagdi: Hvad sem þér viljid mennirnir gjöri ydur, þad eigid þér líka þeim ad gjöra, því svo er kennt í Lögmálinu og Spámanna-bókunum. 3 Mós. b. 19. 18.

Merk: Sérhverr sá, sem er manneskja, er líka vor náúngi, og hefir sama rétt eins og bródir til kærleika vors og þénustusemi, hvert

sem hann er innleindúr eda útlendur, kristinn eda gydingur, tyrki eda heidingi, vinur eda óvinur, ædri eda lægri stéttar, ríkur eda fátækur, og þegar hann þarf hjálpar vid af oss, þá erum vér skyldugir ad hjálpa honum af fremsta megni, án manngreinar álits. Lúk. 10, 25—37. Post. Gb. 17, 26.

---

## I. Umhyggja fyrir sálu náúngans.

§. 1. Vér eigum, svo mikid, sem oss er mögulegt, ad greida veg vors náúnga til betra lífs í ødrum heimi, og þessvegna hjálpa honum med nýtsamlegri tilsøgn, gódum áminníngum, kærleiksfullum advørunum, og umfram allt med gódu eptirdæmi, því Kristur hefir endurleyst hann eins og oss, til þess ad hann ásamt med oss skyldi eignast eilífa sálhjálp.

Jak. 5, 19. 20. Brædur mínir! ef nokkurr á medal ydar villist frá sannleikanum, en einhverr umvendir honum, sá skal vita, ad hverr, sem snýr syndaranum frá villu hans vegar, mun frelsa sálu frá daudanum og hylja fjølda af syndum. 1 Thess. 5, 14. Hebr. 10, 24.

§. 2. Vér eigum ad varast ad kefja lyst náúnga vors til þess sem gott er, þessvegna meigum vér ekki gefa honum hneixli,

med syndsamlegum ordum edur ógudlegu framferdi, ekki heldur koma honum til þess, sem íllt er, annadhvert med hótunum, tillokkunum, edur med raungum fortolum.

Lúk. 17, 1. 2. Jesús sagdi vid sína Lærisveina: Omøgulegt er ad hneixlanir komi ekki, en vei þeim manni, frá hverjum þær koma! þarfara væri þeim ad mylnu-steinn heingdist um háls honum, og honum væri søkkt í sjáfardjúp, enn ad hann hneixli einn af þessum smælíngjum.

2 Tím. 3, 13. Vondar manneskjur og svikarar vesna meir og meir; þeir svíkja og verda sviknir.

§. 3. a). Vér eigum ekki ad láta egna oss til heiptar-reidi mót vorum náúnga eda fá hatur til hans og leitast vid ad hefna vor, þegar hann misbrýtur vid oss, svo vér gjorum honum hjartasorg, til kvalar á sálu edur líkama.

Eph. 4. 26. 27. 31. Ef þér reidist, þá syndgid ekki, látid ekki sólina undirgánga yfir ydar reidi; Gefid ekki tækifæri þeim, sem ber róg; øll beiskyrdi, heipt, reidi, hávadi og illyrdi séu lángt frá ydur, ásamt allskonar íllmennsku.

1 Jóh. 3, 15. Hverr, sem hatar bródur sinn

sá er mordíngi, en þér vitid, ad einginn mord-
ingi, hefir eilíft líf. Jak. 1, 19. 20.

b) Pad er kristileg skylda, ad vér med
hógværd umberum breiskleika vors ná-
únga, þegar hann hefir gjort oss nokkud á
móti, og ad vér fyrirgefum honum, eins
og Gud fyrirgefur sjálfum oss vegna Krists.
Auk þessa eigum vér svo mikid sem oss er
mögulegt, med vinsamlegum fortölum, ad
koma honum til ad sjá ad sér, svo ad hann
vari sig vid ad halda áfram í syndinni.

Mark. 11, 25. 26. Jesús sagdi: Fyrir-
gefid, ef þér hafid nokkud á móti einhverjum,
svo ad ydar Fadir, sem er á himnum, fyrir-
gefi ydur líka ydar afbrot; en ef þér fyrirgef-
id ekki, þá mun ydar Fadir, sem er á himn-
um, ekki heldur fyrirgefa ydar afbrot.

Cól. 3, 12. 13. Svo skrýdist nú, eins og
Guds útvaldir, heilagir og elskanlegir, hjart-
fólginni miskunsemi, gódvilja, audmýkt, hóg-
lyndi, lánglundar-gedi, umlídid hverr ann-
ann, og ef nokkur hefir klögumál móti ödrum,
þá fyrirgefid þad hverr ödrum innbyrdis; eins
og Kristur hefir fyrirgefid ydur, svo gjörid
þér og einnig.

§. 4. a) Vér eigum hverki ad hata
vora óvini, sem annadhvert heimuglega

edur opinberlega vilja gjøra ofs skada, né í nokkurn máta hefna vor á þeim, svo vér ekki gefum þeim tilefni til stærri vondsku, eda séum orsök í þeirra sálartopum.

Róm. 12, 14. 17. 19. Blessid þá, sem ofsækja ydur, blessid en bølvid ekki; gjaldid eingum íllt fyrir íllt; ef møgulegt er, þá hafid frid vid alla menn, svo mikid, sem í ydar valdi stendur; hefnid ydar ekki sjálfir.

b) Þegar óvinir vorir sækjast eptir ad skada vort líf, spilla vorri velferd, eda gjøra ofs vidskila vid vort góda mannord, meigum vér verja ofs móti þeim med almennilegum réttargángi, en vera samt ætíd reidubúnir ad sættast vid þá, bidja fyrir þeim og hjálpa þeim eptir megni, ef þeir þess vidþurfa, eins og Gud hefir audsýnt ofs nád Krists vegna, og fyrir hans sakir vill fyrirgefa sjálfum ofs.

Matth. 4, 25. 44. Jesús sagdi: Vertú strax viljugur til ad sætta þig vid þinn mótstødumann, medan þú ert enn á vegi med honum. Eg segi ydur: elskid óvini ydar, blessid þá, sem ydur bølva, gjørid þeim gott, sem ydur hata, og bidjid fyrir þeim, sem ydur gjøra skada og ofsækja ydur, svo ad þér séud børn Fød-

ur ydar, sem er á himnum. v. 45—48. Róm. 13, 3. 4.

Róm. 12, 20. 21. Ef óvin þinn húngrar, þá gef honum ad eta, ef hann þyrstir, þá gef honum ad drekka. Lát ekki hid vonda yfirbuga þig, en yfirvinn hid vonda med gódu. Róm. 5, 8. 10.

§. 5. a) Vér hofum eingan rétt til ad fyrirdæma nokkra manneskju, þó hún hafi rángar meiníngar, edur vegna þess hún er ekki somu trúarbragda sem vér; heldur eigum vér, eins og sannkristnir, ad fela vora frávilltu brædur Guds miskun á hendur, og gledjast af þeirri von, ad þeir muni verda hluttakandi í Krists endurlausn, þegar þeir hafa vandad sitt framferdi eptir þeirri þekkingu, sem þeir hafa haft færi á ad odlast.

Post. Gb. 10, 34. 35. Eg reyni í sannleika, ad Gud fer ekki í manngreinar=álit, heldur er hverr sá, sem óttast hann og gjørir hvad rétt er, honum þóknanlegur, af hverri þjód sem hann er. Róm. 14, 4. 10. 13.

a) Vér meigum öldúngis einga grunsemd fá, ad þeir hafi drýgt nokkurn sérdeilis glæp, sem ratad hafa í eymd og volædi, því Gud úthlutar, eptir sinni alvisu rádstofun, sorg og

gledi hverjum sem hann vill, ekki til ad straffa þá, heldur odrum til vidvørnnar.

Lúk. 13, 2. 3. Jesús sagdi: Meinid þér, ad þessi Galilískir—hverra blódi Pílatus hafdi úthellt—hafi verid syndugri enn allir adrir Galilískir, þó þeir hafi ordid fyrir þessu; nei! segi eg ydur, heldur, ef þér takid ekki sinnaskipti, munud þér allir eins fyrifarast. Jóh. 9, 1—3.

---

## II. Umhyggja fyrir líkama náúngans.

§. 1. Vér meigum ekki leggja hendur á vorn náúnga, hverki til ad firra hann lífi, né gjora heilsu hans og limum skada, því þar med rænum vér frá honum því stæsta góda, sem Gud hefir gefid honum í þessu lífi, og sú óréttvísi er svo vidurstyggileg í Guds augliti, ad hann líka vill hún verdi stroffud hér í heimi, eptir yfirvaldsins tilhlutun.

2 Mós. b. 20, 13. Þú átt ekki ad slá manneskju í hel. Gal. 5, 20. 21.

1 Mós. b. 9, 6. Hverr, sem úthellir blódi nokkurrar manneskju, hans blód skal af ødrum manni úthellt verda, því Gud gjørdi manninn eptir sinni mynd. Róm. 13, 3. 4.

§. 2. Vér meigum ekki uppáleggja vorum

náúnga meira erfidi enn hann getur afkastad, svo vér ekki veikjum hans krapta; ekki heldur meigum vér gjöra honum hjartasorg, af hverri lífi hans eda heilbrygdi kynni ad verda hætt.

Tím. 3, 2. Minntú þá á, ad þeir ekki lastyrdi neinn, séu ekki þrætugjarnir, heldur eptirlátir, og audsýni allskonar hógværd vid hvern mann.

§. 3. Vér eigum ad vara náúngann vid því, sem honum er skadvænlegt, en ráda honum til þess, sem honum er hollast, svo hann ekki med óframsýni stytti líf sitt; þaradauki eigum vér ad hjálpa honum eptir efnum, og einganveginn synja honum um vora lidveitslu, þegar naudsyn krefur.

Phil. 2, 4. Sérhverr ydar gæti, ekki einúngis ad sínu gagni, heldur og líka annara. Ordsk. b. 12, 15.

Merk: Vor skylda, í tilliti til náúngans lífs og líkama, er í stuttu máli framsett í fimmta Bodordi Frædanna.

## III. Umhyggja fyrir tímanlegri velferd náúngans.

§. 1. a) Vér meigum ekki med neinu gefa tilefni til, ad náúngi vor missi nokkud af sínu górsi edur fjármunum, sem eru hans eigin, og Gud hefir gefid honum, til ad efla med hans velferd; heldur eigum vér ad bera umhyggju fyrir, ad hann hafi allt sitt óskaddad.
2 Mós. b. 20, 17. Drottinn sagdi: Þú átt ekki ad girnast hús náúnga þíns.

b) Einginn má stela frá sínum náúnga, edur leynilega gjöra hann viðskila vid neitt af því sem hann á, móti vilja hans og vitund.
2 Mós. b. 20, 15. Drottinn sagdi: Þú átt ekki ad stela.

c) Einginn má ræna edur taka med ofríki frá sínum náúnga, þad sem honum tilheyrir.
1 Cor. 6, 10. Þjófar og ræníngjar skulu ekki fá Guds ríki.

d) Einginn má svíkja, sinn náúnga, edur draga undir sig nokkud af því, sem honum tilheyrir, med undirhyggju og vélum, svo sem med rángri vigt eda mælir, ónýtum varníngi, okri, edur ödrum þvílíkum svikum og prettvísi.
1 Thess. 4, 6. Einginn svíki edur ásælist

bródur sinn í vidskiptum, því Drottinn er sá, sem hefnir alls þvílíks.' Ordskv. b. 11, 1.

c) Eingimi má lokka fólk eda fé med óleyfilegum hætti frá sínum náúnga honum til skada, hverki med hótunum né vélum.

2 Mós. b. 20, 17. Drottinn sagdi: Þú átt ekki ad girnast þíns náúnga ektakvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustukvinnu, ellegar hans uxa, ellegar asna, ellegar nokkud, sem heyrir þínum náúnga til.

§. 2. a) Vér eigum ad láta náúnga vorn njóta réttar í ollum hlutum, og einganveginn gjøra honum órétt, hvert sem hann er ríkur eda fátækur, ædri eda lægri stéttar, þar ed bædi Guds ord og skynsemi vor banna oss ad gjøra þad ødrum, sem vér ekki viljum þeir gjøri oss.

Matth. 5, 20. Jesús sagdi: Nema ydar réttlæti taki mikid fram skriftlærdra og Pharisæanna, þá kunnid þér einganveginn ad koma inn í himnaríki. Matth. 7, 12. Ef. 1. 17.

b) Hverr, sem á yfir ødrum ad segja, má ekki vanbrúka makt sína til ad undirþrykkja edur skada þá; miklu heldur á hann ad brúka hana þeim til hjálpar og adstodar.

Ordskv. b. 14, 31. Hverr, sem nidurþrykk-

ir lítilmagnanum, sá smánar þann, sem skapadi hann, en sá heidrar Skaparann, sem miskunnar sig yfir fátækan.

c) Vér meigum eingan veginn innihalda þeirra tilhlýdilegum launum, sem erfida fyrir oss, heldur eigum vér ad gefa þeim í réttan tíma þad sem þeim tilheyrir.

Jak. 5, 4. Sjáid! laun verkamannanna og þeirra, sem ydar akurlønd hafa uppyrkt, sem hafa af ydur verid innihaldin, hrópa; og sláttumannanna mikla kvein er komid til Drottins Zebaoths eyrna.

d) Vér eigum ad bæta vorum náúnga ad fullu, ef vér uppá nokkurn máta hofum ásælst hann, eda gjort honum skada.

1. Sam. 12, 3. Spámadurinn Samúel gekk fram fyrir fólkid og sagdi: hér em eg, svarid nú á móti mér fyrir Drottni og hans Smurda: hefi eg tekid frá nokkrum manni hans uxa eda asna? hefi eg sýnt nokkrum manni ofríki eda órétt? eda hefi eg þeigid mútu, og látid þannig blinda mín augu? sé svo, skal eg skila því aptur. Lúk. 19, 8. Ezech. 33, 15.

e) Vér eigum ekki ad misunna náúnga vorum þeirra gæda, sem Guds forsjón hefir látid honum hlotnast, heldur gledjast af hans velgeingni.

Jak. 3, 16. Hvar sem øfund og deilur eru, þar er vanskikkan og øll ill vidskipti.

f) Vér meigum ekki ljúga ad vorum náúnga, edur innbirla honum ósannindi, af hverjum annadhvert hann sjálfur eda adrir kynnu ad komast í ýmisleg vandrædi.

Eph. 4, 25. Afleggid lygar, en talid sannindi hverr vid sinn náúnga, því vér erum hverr annars limur.

§. 3. a) Vér meigum eingan veginn skérda æru náúnga vors, heldur þarámóti, ad því leiti, sem í voru valdi stendur, med øllum leyfilegum hætti leitast vid, ad hann nái allri þeirri virdíngu, sem hann á skilid, því gott mannord og rykti eru mikil gædi í þessu lífi, og øldúngis ómissandi, ef oss á vel ad gánga í voru embætti, stétt og odru því oss vidkemur.

Róm. 13, 7. Svo gefid nú øllum, hvad þér erud þeim skyldugir — þeim heidur, sem heidur heyrir. 1 Pét. 2, 17.

b) Vér meigum ekki baktala edur ljóstra óhródri upp um vorn náúnga, og þar med skérda hans virdíngu.

Jak. 4, 11. Hallmælid ekki hvørr ødrum, brædur mínir! því hverr, sem hallmælir bród-

ur sínum og álasar honum, sá hallmælir løgmálinu og álasar því.

c) Vér meigum ekki dæma illa um náúnga vorn medan hann ekki lætur sitt vonda hjartalag í ljósi med opinberum illverkum.

Matth. 7, 1—3. Jesús sagdi: dæmid ekki hart, svo þér verdid ekki hart dæmdir, því med þeim sama dómi, sem þér adra dæmid, munud þér sjálfir dæmdir verda; og med þeim sama mælir, sem þer mælid út, skal ydur inn aptur mælt verda. En því sér þú flýsina, sem er í þíns bródurs auga, en ad vaglinn, sem er á sjálfs þíns auga, gætir þú ekki?

d) Vér eigum ekki ad audsýna náúnga vorum forakt, hverki í ordum né vidmóti, hversu lítilmótlegur sem hann er edur audvirdilegur.

Matth. 18, 10. Jesús sagdi: sjáid til, ad þér ekki forsmáid neinn af þessum smælingjum. Ordskv. b. 14, 21.

e) Vér eigum ekki ad bera út bresti vors náúnga, heldur miklu fremur þegja yfir þeim, og heldur afsaka enn áfella hann, þegar hann er lastadur af ødrum.

1 Pét. 4, 8. Umfram alla hluti, hafid stødugan kærleika innbyrdis, því kærleikurinn hylur margar syndir. Ordskv. b. 10, 12.

§. 4. a) Þegar náúngi vor er naudstaddur, eigum vér ad láta oss vera annt um ad hjálpa honum, og gjöra allt, sem oss er mögulegt, til ad gjöra hans mædu léttari og koma í veg fyrir hans eydileggingu, þar ed oss má til hugar koma, ad einginn veit nema sama neyd kynni oss líka ad höndum bera, og vér þá gjarnan vildum, ad adrir hjálpudu oss.

Hebr. 13, 16. Gleymid ekki ad gjöra gott og útbýta, því þær fórnir þóknast Gudi vel.

b) Sérhverr kristinn er, eptir Krists dæmi og hans vegna, skuldbundinn ad hjálpa þeim, sem eru sannarlega naudlídandi, og annadhvert vegna heilsubrests edur elli ekki geta sjálfir leitad sér atvinnu; eda þeim, sem med allri sinni atorku, ekki geta unnid nægilega fyrir sér og sinum; eda þeim, sem á ómaga aldri eru munadarlausir.

Matth. 25, 35—40. Á dómsdegi mun Jesús opinberlega segja þeim gudhræddu til hróss og upplífgunar: húngradur var eg, og þér gáfud mér ad eta; þyrstur var eg, og þér gáfud mér ad drekka; gestur var eg, og þér hýstud mig; nakinn var eg, og þér klæddud mig; sjúkur var eg, og þér vitjudud mín; í fángelsi var eg, og þér komud til mín. Þad,

sem þér gjörduð einum af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjörduð þér mér. Es. 58, 7. Orðskv. b. 19, 17. Róm. 12, 13. 15.

c) Iðjulausir húsgángsmenn og betlarar, sem hafa krapta til að leita sér atvinnu með leyfilegum hætti, en nenna því ekki, eiga ekki að fá ölmusu, heldur á að þrýsta þeim til almennilegrar vinnu.

2 Thess. 3, 10—12. Vér sögðum yður svo fyrir, að sá, sem ekki vill vinna, ætti ekki heldur mat að fá; en vér höfum frétt: að sumir lifi í óskikki hjá yður, sem ekkert vinna, en gjöra óþarfa. Í Drottins vors Jesú Krists stað skipum vér þvílíkum og áminnum þá, að þeir séu kyrrir við vinnu sína, og hafi sjálfir fyrir sér.

d) Vér eigum án yfirdrepskapar að samhriggjast með vorum naúnga, hughreysta og upporfa hann og liðsinna honum með allri þénustusemi.

Thess. 5, 14. Huggið ístöðulitla, aðstoðið veika, umlíðið hverr annan. Róm. 12. 15.

e) Ef vor naúngi verður sundurþykkur við aðra, eigum vér að leggja allt kapp á að sætta þá, koma forlíkun á, og þannig afstýra þeim skaða, sem annars hefði máske þar af hlotnast.

Matth. 5, 9. Jesús sagdi: Sælir eru þeir sem fridinn semja, því þeir munu Guds børn kalladir verda. Ordsk. b. 12, 10.

Merk: Vor skylda í tilliti til góds mannords og fjármuna vors náúnga, er í stuttu máli framsett í sjøunda, áttunda, níunda og tíunda Bodordi Frædanna.

---

## D) Um skylduna í sérhverri stétt.

Auk þeirrar almennilegu skyldu, sem á manneskjunum liggur, ad því leiti, sem þær eru manneskjur, eru líka til fleiri sérdeilislegar skyldur, sem þeim uppáleggjast hverri útaf fyri sig, eptir því kalli og embætti, sem Gud hefir þær í sett.

1 Pét. 4, 11. Ef nokkurr hefir embætti, sá þjóni eptir þeirri orku, sem Gud gefur honum, svo ad í øllum hlutum verdi Gud dýrkadur fyrir Jesum Krist.

---

### I. Ektamadur og ektakvinna.

§. 1. Eptir Guds bodi á einn madur ad lifa í hjónabandi med einni ektakvinnu, og eiga þau ad hafa hreinan kærleika hvert til annars; bera jafnan umhyggju hvert fyrir annars tímanlegri og eilífri velferd,

bidja hvert fyrir ødru, og lifa í ævarandi einíngu, uns daudinn adskilur þau.

Matth. 19, 4—6. Jesús sagdi: hafid þér ekki lesid: ad sá, sem í upphafi skapadi manninn, hann skóp einn mann og eina konu og sagdi: fyrir því skal madurinn yfirgefa fødur og módur, og vera hjá eiginkonu sinni, og þau tvø skulu verda eins og ad einni manneskju. Hvad Gud hefir samteingt, þad má manneskjan ekki sundurskilja.

§. 2. Madurinn á einkanlega ad elska sína ektakvinnu eins og sjálfan sig, virda hana, vera henni trúr, sjá fyrir hennar atvinnu, ráda henni heilt, og umbera bresti hennar med kærleika.

Eph. 5, 18. Mennirnir eru skyldugir ad elska þeirra eiginkonur eins og sinn eiginn líkama: hverr, sem elskar eiginkonu sína, hann elskar sjálfan sig.

1 Pét. 3, 7. Þér ektamenn! búid saman vid ydar eiginkonur med skynsemi, eins og þær, sem eru breiskari skepnur, og audsýnid þeim virdíngu eins og þeim, sem líka eru samerfíngjar þeirrar nádar, ad fá eilífa farsæld.

Hebr. 13, 4. Hjúskapurinn á heidarlegur haldinn vera hjá øllum, og hjónasængin óflekkud, en frillulífis-menn og hór-karla mun Gud straffa.

§. 3. Konan á sérílagi ad elska sinn ektamann med innilegri velvild, vera honum trú og hlýdin af kærleika, stjórna innanhúss med kostgæfni og forsjálni, og auk þess vera honum rádholl og þénustuviljug.

Eph. 5. 22, 23. Þér konur! verid ydar eigin mønnum undirgefnar eins og Drottni, því madurinn er kvinnunnar høfud, eins og Kristur er safnadarins høfud.

Tít 2, 4. 5. Postulinn Páll vill láta kenna úngum konum: ad elska þeirra ektamenn, og ad þær séu skírlífar, sidsamar, umsjónarsamar, gódlyndar og bændum sínum undirgefnar, svo Guds ord verdi ekki fyrir lasti.

---

## II. Foreldrar og børn.

§. 1. a) Foreldrarnir eiga ad uppala børn sín til gudhrædslu, svo þau læri frá barnæsku ad þekkja, elska og heidra Gud, líka ad varast syndir og lesti, því þeir eru Gudi audstyggilegir, en stunda eptir dygdum og mannkostum, því þeir þóknast Gudi; svo eiga børnin ad venjast til ad setja sína von og traust einúngis til Guds nádar og miskunsemi vegna Jesú Krists.

Eph. 6, 4. Þér feđur! ertiđ ekki yđar børn til reiđi, heldur aliđ þau upp međ aga og umvøndun til Drottins.

b) Pađ heyrir líka til góđs uppfósturs, ađ børnin venjist til iđni, sparsemi, þrifnađar, auđsveipni og til ađ fylgja sannleikanum án yfirdrepskapar. Foreldrarnir eiga ađ gánga undan þeim međ góđum eptirdæmum, og aldrei láta hjá líđa nauđsynlega hyrtíngu, þegar þau ekki vilja hlýđa þeirra áminníngum.

Orđskv. b. 13, 34. Hverr sem hefir ást á barni sínu, agar þađ snemma. 1 Sam. 3, 10—14. 4, 12—22.

§. 2. Børnin eiga ađ heiđra foreldra sína og hlýđa þeim í øllu góđu, elska, þakka og þjóna þeim, og vera þeim til gleđi međ góđu og siđsamlegu framferđi.

2 Mós. b. 20, 12. Drottinn sagđi: heiđra føđur þinn og móđur þína, svo þú lifir leingi í landinu.

Eph. 6, 1—3. Þér børn! veriđ hlýđin yđar foreldrum Drottins vegna, því þetta er rétt: heiđra føđur þinn og móđur, þađ er hiđ fyrsta bođorđ sem fyrirheit er lagt viđ: svo þér vegni

vel og þú meigir lifa í landinu. 2 Sam. 18, 6—18. Ordskv. b. 23, 22, 25.

---

## III. Húsbændur og þjónustufólk.

§. 1 a) **Húsbændur og matmædur** eiga ad bera umhyggju fyrir velferd síns þjónustufólks, og helst med gódu halda því til ad vera audsveipid, sem og ydíd og reglusamt í því sem þad á ad gjora. Þau skulu einnig gefa þeim tilhlýdileg föt, fædi og laun, og ekki gleyma ad ala önn fyrir þeirra uppfrædingu og betrun til sáluhjálpar, og líka veita þeim hjúkrun, einkum þá þau eru veik eda gömul.

Cól. 4, 1. Þér húsbændur! audsýnid ydar þénurum hvad rétt og jöfnudur er, og vitid, ad þér einnig hafid Herra á himnum.

b) Hverki má húsbóndi né húsmódir breyta illa vid sitt þjónustufólk med íllyrdum, edur annari óleyfilegri eda ofríkisfullri adferd; ekki heldur meiga þau reingja þad med óvidurkvæmilegri tortryggni, eda herda ad því um megn fram, heldur eiga þau ad umbera þess breiskleika med þolinmædi.

Eph. 6, 9. Pér, húsbændur! hættid hótunum, og vitid, ad ydar Herra er líka á himnum, og ad hjá honum er ekkert manngreinar-álit.

§. 2. Þjónustufólk á þarámóti ad heidra og elska sína húsbændur og matmædur, vera þeim hlýdid og trútt, og gjöra verk sitt med ydni og ástundun, án svika edur möglunar, eins og sjálfur Gud sjái uppá þad.

Tít. 2, 9. 10. Áminn þénarana, ad þeir séu húsbændum sínum undirgefnir og gjöri hvad þeim gedþekkt er í öllum hlutum; veri ekki svörulir né sérplægnir, heldur sýni þeim alla hollustu, svo ad þeir prýdi lærdóm Guds vors Endurlausnara í öllum greinum. Eph. 5, 6. 8.

---

## IV. Yfirvald og undirgefnir.

§. 1. a) Yfirvaldid hefir eptir Guds ordi, rétt til ad útheimta hlýdni i ollu því sem þénar til almennilegra nota, og ekki stridir móti Guds bodi.

Róm. 13, 1. 2. Hverr madur sé valdstjórninni undirgefinn, því eingin er valdstjórn, nema af Gudi, og sú valdstjórn, sem er til, er af Gudi tilskikkud, svo hverr, sem mótstendur valdstjórninni, sá stendur á móti Guds skip-

un, en þeir, sem á móti standa, munu yfir sig leida dómsáfelli.

Post. Gb. 5, 29. Þegar høfdíngjar Gydínganna krøfdust hlýdni í því, sem var á móti gódri samvitsku, svørudu Pétur og Jóhannes: framar ber ad hlýda Gudi enn manneskjum.

b) Þad er skylda yfirvaldsins eptir Guds bodi, ad vaka yfir undirsátanna velferd, stadfesta hana med gódum løgum; einnig ad vernda þá gódu en refsa þeim vondu, og láta sérhvern ná rétti sínum án manngreinar-álits.

Róm. 13, 3. 4. Valdstjórnin er ekki gódum verkum, heldur vondum til skelfíngar. Viljir þú ekki vera hræddur vid valdstjórnina, þá gjør þad, sem gott er, og muntú umbun af henni fá; því hún er Guds þénari þér til góds; en ef þú gjørir íllt, þá máttú vera hræddur, því hún ber ekki sverdid forgefins, þared hún er Guds þénari, til ad straffa þá, sem ílla breyta. 5 Mós. b. 1, 16. 17. Ordskv. b. 22, 22. 23.

§. 2. Þeir undirgefnu eiga, vegna Guds, ad hlýda yfirvaldinu og þess tilskipun, líka ad gjalda svikalaust sínar skyldur og skatta, sem útheimtast til sameiginlegra nota, landsins varnar og naudsynja; þeir eiga einnig ad heidra yfirvaldid, vera því hollir og audsveipnir, og bidja fyrir því.

Róm. 13, 5—7. Þad er naudsynlegt ad vera undirgefinn, ekki einúngis vegna straffsins, heldur og fyrir samvitskunnar sakir; því þar fyrir gjaldid þér og skatt, vegna þess þeir eru Guds þjónar, sem vid þá þénustu eru sífeldlega bundnir. Svo gefid hverjum þad sem þér skyldugir erud; þeim skatt, sem skatt eiga; þeim toll, sem toll á; þeim ótta, sem ótti tilheyrir: þeim heidur, sem heidur heyrir.

1. Pét 2, 13. 14. Verid undirgefnir allskonar réttu yfirvaldi vegna Drottins, hvert sem þad er konúnginum, svo sem þeim ypparsta, edur landstjórnurunum, svo sem þeim, hverja hann hefir útsendt til hefndar yfir íllvirkjana, en þeim til umbunar, sem gjøra gott. 1 Tím. 2. 1. 2.

---

## V. Kennendur og tilheyrendur.

§. 1. a) Kennendurnir eiga ad kunngjøra Guds ord án yfirdrepskapar med allri ástundun, til uppbyggíngar, og áminna og advara án manngreinar-álits; þeir eiga einnig ad láta sér innilega vera umhugad, ad børnunum sé svo skilmerkilega kennt, ad þau hafi gagn af; líka eiga þeir ad leitast alvarlega vid ad efla sinna tilheyrenda framfør i sønnum Guds ótta, til eilífrar sáluhjálpar.

Tit. 1, 9. Sá, sem er biskup — kennimadur eda tilsjónarmadur — á ad halda fast vid þann vissa lærdóm, svo hann bædi geti áminnt med heilsusamlegri kenníngu, og líka sannfært þá, er á móti mæla. 1 Pét. 5, 2. 3.

b) Kennendurnir eiga ad gánga á undan sínum tilheyrendum med gódu eptirdæmi í lifnadi og umgeingni; vera blídir og hóglátir, bidja fyrir þeim, og prýda kenninguna med óstraffanlegu framferdi.

1 Tím. 3, 2. 3. Sá, sem er biskup — kennimadur og tilsjónarmadur — á ad vera óstraffanlegur, einnar konu eiginnmadur, árvakur, hófsamur, sídprúdur, gestrisinn, vel fallinn til ad kenna ødrum. Einginn drykkjumadur, ekki styrjaldarsamur, einkis ósæmilegs ávinníngs girugur; heldur sanngjarn, ekki þrætusamur, ekki ágjarn.

§. 2. Barna uppfrædendurnir eiga ad innprenta í hjørtu þess úngdóms, sem þeim er á hendur falinn, lotníngu fyrir Gudi og Kristi, elsku til þeirra, útleggja fyrir honum þad, sem hann á ad læra, og halda honum til ástundunar, hæversku og gódra sida; því ad í æskunni á ad leggjast grundvøllurinn til manneskjunn-

ar eptirfylgjandi lukku og velgeingni um tíma og eilífd.

Ordskv. b. 22, 6. Kenn þeim únga þann veg, sem hann á ad gánga áfram til dygda og rádvendni, og þegar hann eldist, mun hann ekki af honum víkja.

§. 3. Tilheyrendurnir eiga ad andsýna laungun eptir Guds ordi, og trúlega fylgja sinna kénnenda áminníngum, sem á því eru bygdar; einnig veita þeim alla virdíngu, elska þá og gjalda gódfúslega þad, sem þeir eiga ad hafa til síns sæmilegs uppheldis.

Hebr. 13, 17. Hlýdid ydar kennifedrum og látid ad ordum þeirra, því þeir vaka yfir sálum ydar, svo sem þeir, er reikníng eiga ad standa, svo þeir geti gjørt þad med gledi, en ekki med andvørpun, því þar hafid þér ekki gott af.

Gal. 6, 6, Sá sem frædist í ordinu, hann býti hinum allskonar gædum, sem uppfrædir hann. 1 Thess. 5, 12. 13.

Merk: Foreldra og barna, húsbænda og hjúa, einnig yfirvalds og undirgefinna skylda, hvers vid annad innbyrdis, er í stuttu máli framsett í fjórda Bodordi Frædanna og í Hússtøblunni, hvar líka er talad um skyldu kennenda og tilheyrenda. Í

sjøtta Bodordinu og i Hússtøblunni talast greinilega úm skylduna i hjónabandinu.

---

# Sjøundi Kapituli.

## Um þau medøl, sem styrkja trúna og efla gudhrædsluna.

---

### I. Guds ord.

§. 1. Gud hefir látid kenna oss i sinu ordi, um allt sitt rád og sinn vilja oss til frelsunar og betrunar; en þetta hans ord er bædi ad finna i Gamla- og Nýatestamentinu.

Hebr. 1, 1. Eptir ad Gud fordum optsinnis og uppá margan máta hafdi látid spámennina tala til forfedranna, þá hefir hann á þessum sídustu tímum látid Soninn tala til vor.

Jóh. 17, 8. Jesús sagdi í bæninni til sins himneska Fodurs: Þau ord, er þú gafst mér, þau gaf eg mínum lærisveinum, þeir hafa þau og medtekid, og þekkja sannarlega ad eg er af þér útgeinginn, og þeir trúa því, ad þú hafir útsendt mig.

Merk: a) Jesús hafdi lofad sínum lærisvein-
unn, ad senda þeim heilagan Anda, sem
skyldi fræda þá um alla hluti, og minna þá á allt
þad, sem hann hafdi kennt þeim, Jóh. 14, 26.
Þetta skedi líka á fyrsta Hvítasunnudegi
eptir hans himnaför, begar þeir allir, uppfyllt-
ir af heilögum Anda, tóku til ad tala útlendt túngu-
mál, eptir því sem Andinn inngaf þeim. Post.
Gb. 2, 4.

b) Vér þurfum ekki ad nýu ad uppfrædast um
Guds ráð og vilja med neinslags nýrri op-
inberun, því þad Guds ord, sem vér höfum, inni-
heldur allt hvad vér, í því tilliti, vidþurfum. Post.
Gb. 20, 20. 21.

c) Þótt einhverr nú segdi: ad hann hefdi ödl-
ast nokkra nýa guddómlega opinberun, ætt-
um vér samt eingan veginn ad trúa honum, þar-
ed Gud hefir hvergi lofad ad senda nýa spá-
menn til mannkynsins upplýsingar. Gal. 1,
8. 9.

§. 2. Þad er vor skylda ad rannsaka kost-
gæfilega Guds ord, til ad læra þar af, hvad
vér eigum ad varast, og hvers vér eigum ad
gæta, því annars mun Gud krefja oss til
reikningsskapar fyrir vora vankunnáttu, og
þar af fljótandi bodorda-brot.

Sálm. 119, 9—11 David spyr: Hvernig get-
ur æskumadurinn geingid sinn veg óstraffan-

lega? en hann svarar sér sjálfur: með því að breyta eptir þínum orðum, Drottinn! — Eg geymdi þitt orð í mínu hjarta, svo eg syndgaði ekki á móti þér.

Merk: Þegar vér høfum tómstundir frá vinnu vorri, væri gott að vér læsum daglega nokkra stund í Ritníngunni. En á sunnudøgum og øðrum helgum, finnur sú kristna manneskja, sem elskar Guðs orð, hæglega tækifæri til að lesa það, og er það ætíð nytsamlegra að byggja trú sína á eigin rannsókn, eins og þeir í Berróþa forðum gjørðu, Post. Gb. 17, 11, enn að láta sér eingúngis nægja kennendanna søgusøgn.

§. 3. a) Í Guðs orði koma fram mørg dæmi uppá dygðir og lesti, sem vér eigum að taka oss til eptirþánka, þar þau eru, eptir Guðs vilja, uppskrifuð oss til eptirdæmis og viðvørunar.

Jak. 5, 10. Takið spámennina, sem til yðar hafa talað í Drottins stað, til eptirdæmis uppá að líða íllt, og að vera þolinmóðir. Hebr. 6, 12. 1 Cor. 4. 16.

2 Pét. 2, 6. Drottinn lagði borgirnar Sódóma og Gómorra í øsku, fordæmdi til eyðileggíngar, og setti til fyrirmyndar fyrir þá, sem eptirá mundu lifa ógudlega.

b) Einkanlega eigum vér að gefa gætur að Jesú Krists, vors Endurlausnara, heilaga lif-

erni, og ætíd hafa hans dæmi fyrir augunum ad breyta eptir.

Matth. 11, 29. Jesús sagdi: Lærid af mér, því eg em hógvær og af hiarta lítilátur.

1 Pét. 2, 21. Kristur hefir einnig lidid fyrir ydur, og ydur eptirdæmi eptirlátid, ad þér skyldud feta í hans fótspor.

Merk: Jesús Kristur getur ekki verid oss til eptirdæmis ad því leiti, sem hann er Guds Sonur, kominn í heiminn til ad endurleysa syndarana og med kraptaverkum stadfesta, ad hann væri af Gudi sendur; líka og gaf sig sjálfur í daudann til fridþægingar-offurs fyrir allar veraldarinnar syndir; en vér eigum ad kappkosta ad líkjast honum í öllum þeim dygdum, sem eru samkvæmar voru ástandi, og ekki yfirgánga mannlega krapta.

§. 4. a) Ad hafa Guds ord kostgæfilega um hönd, heyra þad med andakt og viljuglega læra, er hid rétta medal, med hverju sannkristin manneskja getur farid æ meir og meir dagvarandi og ordid stadföst í dygd og gudhrædslu, med samverkandi heilags Anda nád.

2 Tim. 3, 16. 17. Öll Ritníngin er innblásin af Gudi, og nytsamleg, til lærdóms, til sannfæríngar, til leidréttíngar, til uppfrædíngar í rádvendni, svo ad Guds madur sé algjørr, og til alls góds verks hæfilegur.

b) Vor skynsemi fær hvad af hverju meiri og meiri þekkingu af Guds ordi til andlegrar og ávartrarsamrar upplýsingar.

2 Tím. 3, 15. Þú kannt heilaga Ritníngu, sem getur uppfrædt þig til sáluhjálpar med trúarlærdóminum um Jesum Krist. Jóh. 5, 39. Sálm. 119, 104. 105,

c) Vor vilji á kroptuglega ad hneigjast af þeim morgu og dýrmætu áminníngum og advorunum, sem finnast í Guds ordi til ad fordast illt, en stunda eptir því, sem gott er; líka upporfast til ad gjora med allri ástundun þad sem oss byrjar.

Lúk. 8, 15. Jesús sagdi: Þeir sem ordid heyra, og geyma þad í gódu og sidsomu hjarta, færa ávoxt med stoduglyndi. 8, 31. 32.

d) Vér getum, hvernig sem ástatt er fyrir oss, fundid huggun og rósemi af Guds ordi, sem inniheldur gædskurikustu loford um Guds náð og blessun Krists vegna.

Jóh. 17, 13. Jesús sagdi í bæninni til síns himneska Fodurs: Þetta tala eg í heiminum, svo ad mínir Lærisveinar hafi af mér fullan fognud med sjálfum sér. Sálm. 19, 9. 119, 24. 92.

Merk: Um réttilega brúkun Guds orda, er i stuttu máli talad i fyrstu Bæninni i Frædunum.

---

## II. Arvekni og Bæn.

§. 1. Vér eigum gaumgæfilega ad vaka yfir hugrenningum vorum og girndum, þar vort edli er breiskt, en freistingarnar eru margar, svo eingin heimugleg lysting til ills geti ad óvorum feingid yfirhönd hjá oss; líka eigum vér ydugleoa og nákvæmlega ad halda reikning vid sjálfa oss um voru lifnad og framferdi.

Matth. 26, 41. Jesús sagdi: Vakid og bidjid, svo þér fallid ekki í freistni; andinn er ad sönnu reidubúinn, en holdid er veikt.

2 Cor. 13, 5. Rannsakid ydur sjálfa hvert þér erud sanntrúadir, reynid ydur sjálfa!

§. 2. a) Gud vill ad vér skulum yduglega bidja, og er þad sjálfum oss til gagns, því ekki þurfum vér ad minna hann á neitt med vorri bæn, þared hann veit fyrirfram bædi hvers vér vidþurfum, og líka hvernin betst verdi rádin bót á því.

Lúk. 18, 1. Jesús sagdi: Þér eigid jafnan ad bidja og ekki ad þreytast. Matth. 7, 7. 1. Thess. 5, 17.

b) Bænin á ad vera oss medal, bædi til ad styrkja vorá elsku og traust á Gudi, og til ad snúa vorum huga frá hégóma veraldarinnar; bænin gefur oss undir eins krapta til ad standa á móti freistingunum, og til ad bera vorar þjáningar med þolinmædi.

Phil. 4, 6. 7. Verid ekki hugsjúkir, heldur látid í øllum hlutum ydar bænir med þakklæti koma fyrir Gud í beidni og ákalli; þá mun fridur Guds, sem meiri er enn nokkurr kann ad þeinkja, vegna Jesú Krists, vernda ydar hjørtu og hugrenningar.

Merk: Gud hefir ekki tiltekid hvad opt hverr kristinn madur á ad bidja, en ef hann elskar Gud einlæglega, verdur þad ætíd hans innilegasta gledi, ad útausa sinn hjarta fyrir Gudi med vonarfullri bæn, hvenær og hvar helst sem honum gefst færi á. Bædi kvøld og morgna hofum vér tíma og tækifæri til þess, líka optar um daginn, mitt í vinnu vorri.

§. 3. a) Vér meigum bidja Gud um allt þad góda, sem hann hefir í sinu ordi lofad ad gefa oss, og sem er bædi sálu og líkama nytsamlegt; en af jardneskum hlutum eigum vér sérílagi ad bidja hann um góda heilsu og daglegt braud, heidur í voru standi, frid

vid vorn náúnga og blessun í vorri løglegri stétt.

Ordskv. b. 30, 8. Agnr bad: gef mér hverki fátækt né audæfi, en láttú mig hafa mitt afskamtad uppheldi.

Matth. 7, 7. Jesús sagdi: bidjid og mun ydur gefast; leitid, svo munud þér finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda.

d) Sérilagi eigum vér ad bidja Gud um þau andlegu gædi sem tilheyra vorri sáluhjálp; þad er: um fyrirgefníngu syndanna, styrk í trúnni og voninni, vit og krapta til ad breyta eptir hans vilja, megn til ad standa á móti øllum syndsamlegum tilteygíngum, um góda samvitsku og sáluhjálplega endalykt.

Lúk. 11, 13. Jesús sagdi: ef þér, sem vondir erud, kunnid ad gefa børnum ydar gódar gáfur, hversu miklu fremur mun Fadirinn á himnum gefa þeim heilagan Anda, sem hann þar um bidja. Cól. 1, 9—11.

Mekr: a) Þegar Jesú Lærisveinar beiddu hann ad kenna sér ad bidja, sagdi hann: þegar þér bidjid, þá segid: Fadir vor! þú, sem ert á himnum; helgist þitt nafn, tilkomi þitt ríki; verdi þinn vilji, svo á jordu, sem á himni; gef oss í dag vort daglegt braud: og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldu-

nautum; og leid oss ekki i freistni; heldur frelsa oss frá illu. Því að þitt er ríkid, mátturinn og dýrdin, ad eilífu, amen!

b) **Drottinleg-Bæn, Fadir-vor,** inniheldur í stuttu máli allt það, sem hver ein kristin manneskja ætíd á ad bidja um og afbidja, bædi í tilliti til sinnar andlegu og líkamlegu velferdar. Þessi bæn kann í stuttu máli þannig ad útskýrast.

**Fadir vor, þú, sem ert á himnum!** það er: þú allrahæsti, eilífi og almáttugi veraldarinnar Skapari og Herra, sem elskar þínar manneskjur lángtum heitar enn beztu fedur á jördunni geta elskad sín børn.

**Helgist þitt nafn;** það er: kenn oss ad audsýna í verkunum, ad vér vidurkennum þig eins fullkominn og ákollunar-verdugan eins og þú í sannleika ert.

**Tilkomi þitt ríki;** það er: lát þíns Sonar Jesú Krists nádugu stjórnun, syndugu mannkyni til upplýsingar og frelsis, meir og meir útbreidast og koma til góds á jördunni.

**Verdi þinn vilji, svo á jördu, sem á himni;** það er: gef oss nád, ad vér sýnum hér á jördunni, ad vér séum reidubúnir, og oss lángi til ad hlýda þér í øllum hlutum, eins og þínir þénarar hlýda þér á himnum.

**Gef oss í dag vort daglegt braud;** það er: gef oss svo mikid af tímanlegum gædum til lífsins naudþurftar dag hvern, eins og þú sér ad oss er gagnlegast til vorrar andlegu og eilífu velferdar.

Fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum; það er: straffa oss ekki eptir maklegleikum, heldur fyrirgef oss vegna þíns Sonar, vor mörgu misbrot, eins og vér viljum gjarnsamlega fyrirgefa þeim sem oss á móti brjóta.

Og leið oss ekki í freistni; það er: lát oss aldrei yfirbugast af þeim freistingum, sem að oss koma, heldur hjálpa oss til að stríða á móti þeim.

Heldur frelsa oss frá illu; það er varðveit oss frá öllu því sem getur orðið oss að skaða á sálu eður líkama.

Því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu; það er: þú einn ræður fyrir allri vorri velferð, og ert máttugur til að efla hana; því skal líka lof og heiður fyrir allt það góða, sem vér hljótum, tilheyra þér einum.

Amen! það er: já, vissulega mun það ské, sem vér biðjum þig um, og þú sér að oss er þénanlegt.

c) Ef vér eigum að biðja með bæninni: „Faðir-vor!" oss til gagns, þá verðum vér með stöðugum eptirþánka, að gæta að meiníngunni í orðunum, og lesa þau með hjartanlegri andakt. Það er því hneixlanleg misbrúkun að lesa þessa bæn án umþeinkingar og fyrir siðasakir. Nær væri að lesa hana sjaldnar, svo andaktin betur gæti viðhaldist. Matth. 6, 7. 8.

§. 4. Þegar vér biðjum Guð um tíman-

leg gœdi, eigum vér ad fela hans þægilegum vilja á vald, ad hvad miklu leiti hann vilji bænheyra oss, þar þad máské getur verid sjálfum oss edur odrum til gagns, ad vér odlumst ekki þad, sem vér bidjum um; edur vér kynnum ad vanbrúka þad, sjálfum oss eda odrum til skada.

Róm. 8, 26. Vér höfum ekki vit á, hvers vér eigum ad bidja. Jak. 1, 2. 3.

Jak. 4, 3. Þér bidjid og ödlist ekki, af því þér bidjid illa, til þess ad þér getid sóad því í ydar býlifi.

Merk: Þegar hinn veiki, sem bidur um heilbrygdi, edur hinn fátœki, sem bidur um ad sér vegni betur, og fleiri þesshattar, ekki bænheyrast, meiga þeir þar fyri ekki þeinkja, ad bænin sé gagnslaus. Þeir eiga miklu heldur ad vera fullvissir um, ad Gud, eptir hans speki, sér þeim þénanlegra ad þeir fái ekki þad þeir umbidja; eiga þeir því eingu adsídur ad halda áfram med bænina til Guds, svo ad þeir venjist því meir til ad hlýda honum og gefa sig undir hans vilja.

§. 5. Vér eigum ad bidja fyrir vorum náúnga med sömu alvorugefni og sama hjartalagi eins og fyrir sjálfum oss, til merkis um, ad vér elskum hann, og einlæglega samgled-

jumst af hans velgeingni, og Gud mun ekki láta voru góda tilgáng verda ólaunadan.

1 Tím. 2, 1—3. Fyrst af øllu er, ad eg áminni: ad gjørast skuli óskir, bænir, fyrirbænir og þakkargjørd fyrir øllum mønnum, fyrir Konúnginum og øllu Yfirvaldi, svo vér mættum hafa spakt og rósamt líferni í allri gudrækni og sidsemi. Því þad er gott, og líka Gudi þóknanlegt. Jak. 5, 16.

§. 6. Ef vér eigum ad geta bedid med þeim hætti, sem Gudi þóknast, meigum vér ekki láta vorar hugrenníngar hvarfla híngad og þángad, heldur snúa þeim til Guds alleina, og med audmýkt frambera vorar nauðsynjar fyrir hann, med stødugu trausti á Jesú Krists forþénustu og fyrirbón, án þess ad reida oss á voru eiginn verdugleika; þaradauki eigum vér ad útrýma úr hjarta voru øllu hatri til náúngans.

Jóh. 17, 20. Jesús sagdi í sinni bæn til síns himneska Føдurs: Eg bid ekki einúngis fyrir þessum — mínum Lærisveinum — heldur einnig fyrir þeim, sem munu trúa á mig fyrir þeirra ord. Róm. 5, 1—2.

Mark. 11, 25. Jesús sagdi: Nær þér standid og bidjist fyrir, þá fyrirgefid, ef þér

hafid sök móti nokkrum, svo ad ydar Fadir, sem er á himnum, fyrirgefi ydur ydar afbrot.

Merk: a) Sá kristinn madur, sem er vel uppfræddur, bidur helst med sínum eigin ordum, sem ekki munu skorta hann, þegar hann hugsar alvarlega eptir því, sem hann ætlar ad bidja um, og þá hjartad kemst vid. En ef vér viljum brúka þær bænir, sem adrir hafa gjört, eigum vér ad velja þær, sem eiga vid vort ástand, og innihalda þad, sem vér þá sérilagi þurfum ad bidja um.

b) Formálinn fyrir framan Drottinlega-Bæn i Frædunum, talar um þad trúnadar-traust, sem vér eigum ad hafa til Guds þá vér bidjum. I fjórdu Bæninni er talad um þá tímanlegu velgjörninga, og i fimmtu Bæninni um þá andlegu, sem vér eigum helst ad bidja um. I sjöundu Bæninni er lika getid um hid illa, sem vér eigum einkum ad afbidja.

---

## III. Skírnar-Sakramentid.

1. §. Skírnin er þad heilagt verk, sem Kristur hefir bodid ad brúka vid þá, sem ætla ad játast undir hans lærdóm; og má annadhvort dýfa þeim i vatn, edur ausa því yfir þá, i nafni Födursins, Sonarins og þess heilaga Anda.

Matt. 28, 18. 20. Jesús sagdi: Allt vald er mér gefid á himni og á jørdu. — Fyrir því farid og gjørid allar þjódir ad mínum Lærisveinum, og skírid þær til nafns Fødursins, Sonarins og þess heilaga Anda, og kennid þeim ad halda allt sem eg baud ydur, og sjáid! eg er med ydur allt til veraldar enda.

Merk: Í heitari londunum má án heilsuspillis dýfa þeim nidur i vatn, sem skírast eiga, en hér i þessum kaldari løndum verdur, heilsunnar vegna, einúngis ad yfirausa þá vatni, eins og brúkad var i hinni fyrstu kristni, þegar einnhverr var skírdur á sinni sóttar-sæng.

§. 2. a) Med skírninni verdur manneskjan limur kristilegrar kirkju, til ad verda med heilags Anda samverkandi nád hluttakandi i þeim ypparlegu velgjørningum, sem Kristur hefir oss útvegad.

Gal. 3, 26. 27. Þér erud allir ordnir Guds børn af trúnni á Jesum Krist, því svo margir af ydur, sem erud skírdir til ad trúa á Krist, þér hafid iklædst Kristó.

Tít. 3, 5. Eptir sinni miskunsemi hefir Gud oss hólpna gjørt med endurgetningarlauginni og endurnýúnginni, sem skedur af heiløgum Anda.

d) Gud veitir oss i skírninni adgáng til syndanna fyrirgefningar fyrir Krists sakir, og gjør-

oss, svo sem sín elskuleg børn, hluttakandi í sinni fødurlegri elsku; opnar oss einnig veg til gledi og farsældar í tilkomanda eilífu lífi.

Mark. 16, 16. Hverr, sem trúir og verdur skírdur, sá mun hólpinn verda, en hverr, sem ekki trúir, sá mun fordæmast.

§. 3. Med ad skírast í nafni Fødursins, Sonarins og þess heilaga Anda, verdum vér skuldbundnir til ad trúa á Fødur, Son og heilagan Anda, sem þann einasta sanna Gud, er alleina rædur fyrir vorri tímanlegri og eilífri endurlausn og velferd, svo ad vér skulum dýrka hann einan og treysta honum einum, líka heidra og elska hann, og hlýda honum af øllu hjarta; en hér af fylgir þá einnig: ad vér skuldbindum oss til ad strída á móti øllum vondum girndum, og taka oss vara fyrir ad brjóta hans bodord visvitandi, en kappkosta ad lifa eptir Jesú Krists lærdómi í sønnum Guds ótta.

1 Pét. 3, 21. Skírnin er ekki burttekt líkamans saurugleika, heldur sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud.

Róm. 6, 4. Svo erum vér þá med Kristi greftradir í Skírninni til daudans, ad líka sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd

Fødursins, svo eigum vér ad gánga í nýu líferni.

§. 4. Kristur vill ad allir menn verdi í skírninni limir sinnar kristilegu kirkju, þar þeir eru endurkeyptir med hans dauda; því eiga líka smábørnin eptir hans vilja ad skírast.

Mark. 10, 14. Jesús sagdi: Leyfid smábørnum til mín ad koma og bannid þeim þad ekki, þar ed Guds ríki heyrir þvílíkum til. Matth. 28, 19.

Merk: Þau børn, sem deya ádur enn þau hljóta skírn, koma samt í Guds ríki, því ad Kristur hefir endurleyst þau, og þeim verdur ekki tilreiknud forsómun á skírninni. En hafi foreldrar eda vandamenn af ásettu rádi haldid barninu frá skírninni, þá verdur þad þeirra ábyrgdar-hluti, vegna þess þeir þar med sýndu, ad þeir virtu litils Krists bodord.

§. 5. Í Konfirmatióninni eigum vér sjálfir ad ítreka og opinberlega ad endurnýa þad heilaga loford, er adrir gjørdu fyrir vora hønd þegar vér hlutum skírn, sem er: ad vér viljum afneita øllum ógudleglcika, trúa á Gud Fødur, Son og heilagan Anda, einnig audsýna vora trú med gódverkum. Til þessa lofords eigum vér ætíd alla vora lífstíd ad muna,

og láta það sífeldlega minna oss á þá trygð og hollustu, sem vér erum Guði um skyldugir, svo vor trú og ráðvendni ekki spillist af holdlegu gjálífi.

Opinb. b. 2, 10. Jesús sagði: Vertú trúr allt til dauðans, svo skal eg gefa þér lífsins kórónu.

Eph. 5, 25—27. Kristur elskaði söfnuðinn og gaf sig sjálfan út fyrir hann til að helga hann, þegar hann með orðinu hreinsaði hann í vatns-baðinu, svo að hann útvegaði sjálfum sér dýrðlegan söfnuð, sem hefði eingan blett né hrukku, eður neitt þesskáttar, heldur væri heilagur og óstraffanlegur.

Merk: Svo opt, sem vér endurminnumst Skírnarinnar, eigum vér að uppörfast til nýrrar árvekni og ástundunar í því að laga vorn lifnað eptir Krists lærdómi. Þess vegna, þó Skírnin sjálf eigi ekki að itrekast, er hún samt sífelt ávaxtarsamt meðal handa oss, til að efla vora dygð og guðhræðslu.

Um Skírnina er talað í fjórða parti Fræðanna.

---

## IV. Kvøldmáltíðar-Sakramentið.

§. 1. Sú heilaga Kvoldmáltíð, er það heilagt verk, er Jesús Kristur innsetti, með hverju kristnir menn eiga að eta brauð, og

drekka vín, og þar med verda hluttakandi í Jesú Krists líkama og blódi, sem offrad var til forlíkunar fyrir þá, og vegna þeirra synda.

Matth. 26, 26—28. Mark. 14, 22—24. Lúk. 22, 19. 20 1 Cor. 11, 23—26. Vor' Herra Jesús Kristur, á þeirri nóttu, sem hann svikinn var, tók hann braudid, gjørdi þakkir, braut þad og gaf sínum Lærisveinum og sagdi: takid og etid, þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn; gjørid þad í mína minníngu. Sømuleidis eptir kvøldmáltídina, tók hann kaleikinn, gjørdi þakkir, gaf þeim hann og sagdi: drekkid allir hér af, þad er kaleikur ens Nýa Testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur úthellist til fyrirgefníngar syndanna; gjørid þetta, svo opt sem þér þad drekkid, í mína minníngu.

§. 2. a) Med innsetníngu þeirrar heiløgu Kvøldmáltídar hafdi Jesús þann tilgáng ad styrkja kristna menn í trúnni, og uppørfa þá til kostgæfilegrar ástundunar í kristilegu liferni.

Lúk. 20, 19. Jesús sagdi: Gjørid þad í mína minníngu.

b) Þegar vér medtökum Kvøldmáltídar-Sakramentid, eigum vér ad minnast Jesú Krists fridþægjandi dauda, oss til huggunar og fullvissu um, ad allar vorar syndir sén oss

hans vegna fyrirgefnar, ef vér einasta tileinkum oss hans forþénustu med sannri ydrun og lifandi trú.

Lúk. 22, 19. 20. Jesús sagdi: Þetta er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn— þessi kaleikur er þad Nýa Testamenti í minu blódi, sem fyrir ydur úthellist.

c) Vér eigum ad láta þá heilögu Kvöldmáltíd uppörfa oss til, ad vér med innilegasta þakklæti metum mikils þad, ad Jesús Kristur leid þúngar kvalir og fórnfærdi sig sjálfan í vorn stad, og med því ad neyta opinberlega þessarar máltídar, eigum vér honum til vegsemdar ad audsýna, ad vér vidurkennum hann sé vor Frelsari og Sáluhjálpari.

1 Cor. 11, 26. Svo opt sem þér etid af þessu braudi og drekkid af þessum kaleik, skulud þér kunngjöra dauda Drottins, þángad til hann kemur.

d) Í því vér medtökum braudid og vínid, komumst vér í nákvæmustu sameiningu vid Jesum Krist vorn Frelsara, sem gjörir oss hluttakandi í sínum allraheilagasta líkama og blódi, og þar med innsiglar, ad vér séum medteknir til þess nýa nádar-sáttmála, hvern

hánn, sem vor medalgángari, hefir samid millum Guds og vor.

1 Cor. 10, 16. Sá blessadi kaleikur, hvern vér blessum, er hann ekki hluttekning í Krists blódi? Þad braud, sem vér brjótum, er þad ekki hluttekning í Krists líkama?

Hebr. 8, 6. Kristur hefir ødlast svo miklu ædra kennimanns embætti, sem sattmáli sá er ypparlegri, søkum þess hann er grundvalladur á betri fyrirheitum.

c) Þegar vér minnumst þeirrar órannsakanlegu Jesú Krists elsku, sem í Kvøldmáltídinni verdur oss fyri sjónir sett, á heitasta elska aptur á móti ad uppkveikjast í vorum hjørtum; þad á líka ad knýja oss til ad elska hverr annan innbyrdis, eins og þá brædur, hverja Kristur hefir allasaman endurleyst.

Jóh. 13, 35. Þar af skulu allir þekkja, ad þér erud mínir Lærisveinar, ef þér elskid hverr annan.

1 Cor. 10, 17. Fyrst þad er eitt braud svo erum vér allir einn líkami; því vér erum allir hluttakandi í því eina braudi.

§. 3. Þad er naudsynlegt, ad vér prófum sjálfa oss hvert vér getum svo sem verdugir gestir geingid til Guds bords; því þeir einir hafa gagn af Sakramentinu, sem medtaka þad

verduglega, en hinir óverdugu ávinna sér þar-ámót Guds straungu reidi.

1 Cor. 11. 27—29. Hverr, sem etur af þessu braudi, eda drekkur kaleik Drottins óverdugur, sá verdur sekur vid Drottins líkama og blód; en hverr einn prófi sig sjálfan og eti svo af braudinu og drekki af kaleiknum.

§. 4. Þegar vér viljum réttilega prófa sjálfa oss, þá eigum vér:

1) Ad rannsaka vort hjartalag í tilliti til Krists og hans fridþægingar, svo vér getum vitad, hvert oss, sem ydrandi manneskjum, sýnist mikils umvarda ad finna náð hjá Gudi einum vegna Jesú Krists og med trúnni á hann.

2) Eigum vér ad rannsaka sjálfa oss, hvert þad sé vor einlægur ásetningur, hér eptir med alvörugefni ad strída á móti öllum syndsamlegum tilløkkunum, og af alúd ad vilja fylgja Jesú lærdómi, svo oss fari meir og meir fram í rádvendni og sönnum Guds ótta.

Sérhverr sá geingur óverduglega til Guds bords, sem eptir þad hann þannig hefir prófad sig nákvæmlega finnur ekki hjá sér þad hugarfar, ad hann vilji leita nádar hjá Gudi med trúnni á Krist, hafa einlægan ásetning

ad betra sig, og láta sér fara fram í dygd og Guds ótta.

1 Cor. 2, 2. Eg tók fyri mig ad fara ekki med neinn annan lærdóm, þegar eg var hjá ydur, enn um Krist og hann krossfestan.

2 Cor. 5, 14. 15. Krists kærleiki þvíngar oss, med því vér ályktum svo, ad fyrst hann einn er dáinn fyrir alla, svo séu þeir allir dánir; og hann dó fyrir alla, svo ad þeir, á medan þeir lifa, skuli hér eptir ekki lifa sjálfum sér, heldur honum, sem fyrir þá er dáinn og upprisinn.

Merk: a) Í skrifta-stólnum verdum vér sérílagi áminntir og uppörfadir til ad prófa nákvæmlega sjálfa oss, þegar skrifta-fadirinn, med sínum gudlegum fortölum og áminningum, minnir oss á skyldu vora vid Krist, og brýnir fyrir oss, ad vér eigum sífeldlega ad kappkosta, ad vera dygdaudugir.

b) Þad stendur einganveginn í prestsins valdi ad fyrirgefa syndirnar, því þad er Guds alleina. En presturinn getur einúngis eptir Guds fyrirheitum tilsagt oss og bodad: ad Gud hafi vissulega fyrirgefid oss vorar syndir vegna Jesú Krists, ef vér ydrumst þeirra af hjarta og trúum á Krist. Þess vegna hafa ydrunarlausir ekkert gagn af ad gánga til skrifta og altaris, heldur verdur þeirra ábyrgdar-hluti því

þýngri, þar þeir vanbrúka þetta til ad hylja med vondsku sína, og til ad gjora gis ad Guds ordi.

Um þá heilögu Kvöldmáltíd, er talad í fimmta parti Frædanna.

---

# Attundi Kapítuli.

## Um mannanna sídasta ástand.

§. 1. Þó daudastundin sé öllum óviss, þá er samt víst, ad allir menn, sem á jordunni lifa allt til veraldarinnar enda, eiga einusinni ad deya, því allir þeir eru syndarar.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn, og daudinn vegna syndarinnar, þannig hefir daudinn runnid inn til allra manna, því þeir syndgudu allir.

Merk: a) Þad er mjög hættulegt og heimskulegt ad skjóta á frest sínum undirbúníngi til daudans, vegna þess ad manneskjan kannské sé úng eda med gódri heilsu, og kenni sér einkis meins, því daudinn kippir morgum burtu á betsta aldri; svo veit heldur einginn, hvert daudinn muni koma hastarlega ad, edur med addraganda; einginn getur heldur fyrirsagt, hvert hann muni fá færi á

ad undirbúa sig, þegar hann á hér vid ad skilja, því fæstir eru svo oruggir á dauda-stundunni, ad þeir geti med alvorugefni og stødugri umþeinkingu hugsad um sín sáluhjálpar-efni.

b) Á sóttar-sænginni er tíminn ofnaumur til ad fá vidbjód á þeim løstum og hégóma-elsku, sem optrudu syndaranum, medan hann var heill og ósjúkur, frá ad trúa á Jesum Krist og elska hann; hugarfarid umbreytist ekki heldur af því, þó manneskjan, medan háskinn vofir yfir, fyllist upp af hrædslu og kvída fyrir eymd og kvøl um alla eilífd; því vér sjáum allt of opt, ad þeir, sem med miklu hugar-ángri lofa bót og betrun á sóttar-sænginni, snúa strax sem þeir eru ordnir heilbrygdir aptur, til síns fyrra syndsamlega lifnadar, og sýna þar med, ad þeirra ángur hafi ekki komid af einlægu hjarta, og ad lystin til þess vonda, er af laungum vana ordin svo rík i sálunni, ad hún getur ekki ordid nidurkæfd, nema med lángvarandi stridi og baráttu.

c) Þar fyrir er rádlegast ad búa sig undir daudann frá únga aldri, og strida strax á móti ollum illum girndum, undir eins og þær taka til ad hreisa sér; en kappkosta þar á móti ad komast med lifandi trú i sameiningu vid Krist, sinn Endurlausnara, og fylgja hans eptirdæmi; því eins og ógudlegir forherdast meir og meir, svo þeir,

med því að halda áfram í syndunum, hafa einga dygðar og guðhræðslu tilfinníngu, svo styrkjast hinir guðhræddu daglega með samverkandi náð heilags Anda af að ydka sig sífeldlega í guðhræðslu, og þannig undirbúa handa sér frið og fognuð í samvitskunni, sem er sú stæsta farsæld í þessu lífi; en óguðlegir aptur á móti baka sér með lostum sínum stæstu kvöl og órósemi. Þegar dauðinn að kemur, eru þeir guðhræddu hughraustir og ókvíðnir, en hinir óguðlegu skelfast, og annaðhvert falla í örvæntingu, ellegar með þánkaleysi sokkva sér niður í forherdingu.

§. 2. Sálin, sem er ódauðleg, fer strax sem hún er skilin við líkamann, til síns samastaðar, annaðhvert í eilífa gleði, eður eilífar kvalir, eptir því sem manneskjan hefir lifað í þessum heimi vel eður illa.

Lúk, 23, 43. Jesús sagði við ydrandi ræníngjann á krossinum: Sannlega segi eg þér: í dag skaltú vera með mér í Paradís. 2 Cor. 5. 8.

Jóh. 5, 24. Jesús sagði: Hverr, sem heyrir mín orð og trúir þeim, sem mig sendi, sá hefir eilíft líf og hann kemur ekki til dóms, heldur hefir hann stígið yfir frá dauðanum til lífsins.

Lúk. 16, 22. 23. Jesús segir í eptirlíkíngunni: Sá fátæki dó og var borinn af Eingl-

um í fadm Abrahams. Hinn ríki dó líka og var greftradur, en sem hann upphóf sín augu í helvíti, var hann í kvølunum.

§. 3. Á efsta degi skal líkaminn uppvekjast úr duptinu, og samteingjast aptur sálunni; verdur hannn þá óforgeingilegur

Jóh. 5, 28. 29. Jesús sagdi: Sá tími mun koma, á hverjum allir þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra Guds Sonar raust, og þá munu þeir, sem gott hafa gjørt, upprísa til sælu, en hinir til fyrirdæmíngar, sem íllt hafa adhafst.

Post. Gb. 24, 15. Postulinn Páll sagdi: Æg hefi þá von til Guds, ad á eptir muni koma upprisa framlidinna, bædi réttlátra og ránglátra.

1 Cor. 15, 42. Líkama þeirra, sem deya, verdur forgeingilegum nidursád, en hann mun upp aptur rísa óforgeingilegur; honum verdur andvirdilegum nidursád, en hann mun upprísa vegsamlegur; honum verdur nidursád veikum, en hann mun upp aptur rísa máttugur; náttúrlegum líkama verdur nidursád, en upp aptur mun rísa andlegur líkami.

§. 4. Þær manneskjur, sem verda lífs á jørdunni þegar dómsdagur kemur, deya ad sønnu ekki, en þær munu samt umbreytast,

svo ad þeirra forgeingilegi líkami verdur í augabragdi óforgeingilegur; eingin manneskja veit hvenær þessi dagur muni koma.

1 Cor. 15, 51. 52. Sjá! eg segi ydur leyndardóm: vér munum ekki allir sofna, en allir munum vér umbreytast, og þad í vetfángi, á einu augabragdi, vid hinn sídasta lúdur-hljóm; því lúdurinn mun gella, og hinir framlidnu munu upprísa óforgeingilegir, en vér munum umbreytast.

§. 5. Kristur mun med dýrdlegum hætti opinberlega dæma allar manneskjur eptir upprisuna, og auglýsa fyrir øllum: ad gudhræddir séu verdugir til ad lifa í vegsemd og føgnudi eilíflega; en ógudlegir þar á móti muni verda fyrir því straffi, sem þeirra illverk hafa til unnid.

Post. Gb. 17, 31. Gud hefir tilsett vissan dag, á hverjum hann ætlar ad láta þann mann, sem hann hefir þar til sett, dæma med réttvísi alla jardarinnar innbyggendur; þarum sannfærir Gud alla med því, ad hann uppvakti þann mann frá daudum.

2 Cor. 5, 10. Vér eigum allir ad opinberast fyrir Krists dómstóli, svo ad hverr einn úr býtum beri eptir því, sem hann hefir ad-

hafst í líkamans lífi, hvert sem það hefir verið gott edur íllt.

2 Thess. 1, 7. 8. Þegar Drottinn Jesús opinberast af himni með sínum eingla-her og logandi eldi, til að hegna þeim, sem ekki vildu aðhyllast Guð, og straffa þá, er ekki voru hlýðugir Evangelió vors Drottins Jesú Krists.

Merk: Sérhver sála dæmist strax eptir að hún er farin út af líkamanum, og verður henni visað annaðhvert til eilífrar gleði edur eilífra kvala. Hebr. 9, 27. En á síðasta degi, þegar sálirnar eru að nýu orðnar samteingdar líkomunum, mun Kristur sem Kóngur og Herra samansafna þeim, svo hans réttvísi dómur verði þeim øllum undir eins kunnur, til vitnisburðar um hans stjórnun án manngreinar-álits, og svo þeim sé einginn óréttur gjorr. Matth. 25, 31—46. Róm. 2, 16.

§. 6. Eilíft líf er það dýrðlega og sælu-fulla ástand, í hverju guðhræddir menn æfinlega lifa í gleðilegustu sambúð með Jesú Kristi, góðu einglunum og øllum heiløgum, án þess að áreitast leingur af nokkurri synd edur sorg, en njóta óumræðilegrar huggunar, friðar og fagnaðar af að skoða Guðs dýrð, sem auðsýnir sig í hans mørgu dásemdarverkum, þar þeir einnig lofa og vegsama Guð

hverr með ødrum, og æfa sig í dygðinni og kærleikanum, eptir Guðs vilja.

Matth. 25, 34. Jesús mun segja við þá: komið híngað þér, blessaðir af mínum Føður, og eignist það ríki, sem ydur er fyrirbúið frá veraldarinnar upphafi.

Jóh. 17, 24. Jesús sagði í bæninni til síns himneska Føðurs: eg vil að þeir, sem þú gafst mér, skuli vera hjá mér hvar sem eg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mér.

Hebr. 12, 22. Þér komið til borgar Guðs lifanda, til þeirrar himnesku Jerúsalem, og til margfjølda margra þúsund Engla.

Opinb. b. 21, 4. Guð mun þerra øll tár af þeirra augum, og dauðinn mun ekki leingur vera til, ekki harmur né kveinan, né heldur pína mun leingur til vera.

Róm. 2, 10. Heiður, vegsemd og frið skal hverr sá ødlast, sem gott gjørir.

§. 7. Fyrirdæmingin, sem annars kallast eilífur dáuði, er það kvalafullt og vonarlaust ástand, í hverju ógudlegir sárlega kveljast, af þeirra nagandi samvitsku, og hvar þeir, í hinna ógudlegu vondu anda og illra sálna sambúð, finna til hriggilegustu verkana af sínum fyrri illgjørðum, þareð þeirra drottnandi lyst-

ir, hverjum þeir þá ekki geta fullnægt, undir eins auka þeim kvol og pinu.

Matth. 25, 41. Jesús mun segja til þeirra: farid frá mér, þér bølvudu! í þann eilífa eld, sem búinn er djøflinum og hans árum.

Mark. 9, 48. Jesús sagdi: þeirra o r m u r deyr ekki og þeirra e l d u r slokknar ekki.

Jóh. 3, 36. Hverr, sem trúir á Soninn, sá hefir eilíft líf, en hverr sem ekki hlýdnast Syninum, skal ekki sjá lífid, heldur varir Guds reidi yfir honum.

Róm. 2, 9. Hrellíngar og harmkvæli munu koma yfir allra þeirra manna sálir sem íllsku drýgja.

§. 8. A sídasta degi mun vor heimur forgánga med øllum sínum gædum; en gudhræddir munu ætíd vera hjá Drottni, og med þessari von skulum vér hughreysta hverr annan.

2 Pét. 3, 10. Dagur D r o t t i n s mun koma sem þjófur á nóttu, þá munu himn-

arnir med miklum gný forgánga, en frumefnin af eldi sundurleysast, og jørdin med því sem í henni er uppbrenna. 1 Thess. 4, 17. 18.

---

Gudi sé lof og dýrd ad eilífu, amen!

# Stutt
# Agrip
af
# Höfuð-lærdómum
## kristilegra trúarbragða.

---

1.

Einn einasti sannur Guð er til, sem hefir skapað heiminn, viðheldur og stjórnar honum til gagns og gleði öllum sínum lifandi skepnum, en sérílagi þeim skynsemdarfullu til velferðar.

2.

Þessi Guð hefir allrastæstu eiginlegleika og er sá allra fullkomnasti í makt, speki, gæðsku, heilagleika og réttlæti.

3.

Heilög Ritning, sem inniheldur Guðs vilja og ráðstöfun, að svo miklu leiti, sem þau sér-

ilagi eru manneskjunum vidkomandi, kennir oss ad dýrka Gud, sem Födurinn, Soninn og þann heilaga Anda, er allir hafa eina veru, og sömu guddómlegu tign.

4.

Manneskjan var í upphafi, þegar Gud hafdi skapad hana, saklaus og góð, en hún spillti sér sjálfri, med því ad brjóta fríviljuglega móti Guds lögmáli; þar af vard hún syndug og óhæfileg til ad taka á móti þeirri sælu, sem Gud hafdi henni ætlad.

5.

Jesús Kristur, sem er eingetinn Sonur þess himneska Födurs, vard manneskja, svo hann gæti endurleyst syndugt mannkyn frá þeirri eymd, sem þad hafdi med syndinni steypt sér í. Hann sýndi mönnunum þar fyrir med sinni kenníngu, hvad Gud af sinni miskunarfullu elsku hefdi ályktad um þeirra frelsun, útvegadi þeim adgáng til hennar med sinni fríviljugri pínu og dauda, og stadfesti líka med sinni upprisu og himnaför þá vissu, sem hann hafdi gefid þeim um eilíft líf. Nú stjórnar hann öllum heiminum ásamt med Födurnum

með guðdómlegri makt og veldi, og ber sérílagi umhyggju fyrir sinna endurleystra eilífri sáluhjálp.

6.

Sá heilagi Andi leiðir oss með Krists lærdómi til apturhvarfs frá syndunum og til trúarinnar á Krist, svo vorar syndir verði oss fyrirgefnar. Hann hjálpar oss einnig til betrunar og framfara í dygð og guðhræðslu, svo vér getum orðið hluttakandi í þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir oss útvegað.

7.

Vor trú á Jesum Krist, á að sýna hvert hún sé kroptug, með því að vér lifum eptir vorri skyldu bæði við Guð, við sjálfa oss og við náúngann, eptir því sem Guð og Kristur hafa skipað oss í heilagri Ritníngu.

8.

Guði erum vér skyldugir um, að tilbiðja, óttast og elska hann, hlýða honum og reiða oss á hann einan, lofa hann, þakka honum og ákalla hann, einnig taka oss vara fyrir öllu því, sem í nokkurn máta stríðir móti þeirri virðíngu, sem vér eigum honum að veita.

9.

Sjálfum oss erum vér skyldugir um, ad bera tilbærilega umhyggju bædi fyrir sálu vorri og líkama, sem og fyrir vorri tímanlegri velferd, en þó sérílagi gæta vor, og varast allt íllt og syndsamlegt háttalag og vana, svo samvitskan hverki ofþýngist, né vér lídum tjón á vorri sönnu velferd; vér erum þarámót fullvissir um Guds nád, og getum ætíd med sonarlegu trúnadartrausti leitad hælis hjá honum, ef vér kappkostum ad verda gódar og dygdugar manneskjur eptir Jesú lærdómi og eptirdæmi.

10.

Náúnganum erum vér skyldugir um ad elska hann eins og sjálfa oss, og þess vegna ad vera ætíd reidubúnir til ad gjöra þad sama vid hann, sem vér kjósa vildum ad hann í líku tilfelli gjördi vid oss; en aldrei taka oss neitt þad fyrir hendur, sem í nokkurn máta kynni ad skerda hans tímanlegu eda eilífu velferd.

11.

Vér eigum ad hafa Guds ord yduglega um hönd, því þad er hid betsta medal til vorrar

upplýsingar og helgunar, líka eigum vér ydnuglega ad vegsama og ákalla Gud, svo hugur vor þar med uppfyllist af elsku til Guds og laungun eptir ad gjora hans vilja.

12.

Vér eigum ad leggja allt kapp á ad virda mikils og halda vorn skírnar-sáttmála, því med skírninni hefir Kristur látid gjora oss ad limum sinnar kirkju, og gefid oss rétt til sinna dýrmætu velgjorninga.

Í Kvoldmáltídar-sakramentinu gjorir Jesús Kristur oss hluttakandi í sínum líkama og blódi, til fullvissu um ad vorar syndir séu oss fyrirgefnar, ef oss af hjarta ángrar, ad vér høfum drýgt þær, og einsetjum oss ad láta oss fara fram med trúnni á hann í rádvendni og í vorum kristinndómi; þar fyrir eigum vér líka ad brúka þetta Sakramenti med hjartanlegri andakt, eptir ad vér ádur høfum nákvæmlega og alvarlega prófad sjálfa oss.

13.

Gudhræddra sálir koma eptir daudann til eilífs lífs og eilífrar sælu í samfélagi med gódum øndum hjá Kristi sínum Endurlausn-

ara; en þá ógudlegir deya, fara þeir i samfélag vondra anda, og hreppa þar kvalir og ángist, sem er maklegt straff fyrir þeirra illgjørdir.

14.

Guds alvísa rádstofun hefir tilsett vissan dag, á hverjum þeir dandu líkamir munu úr sínu dupti uppvekjast og samteingjast þeirra sálum, þegar Kristur mun láta þá alla mæta opinberlega fyrir sínum dómstóli, og þá forgeingur sú verøld, sem nú er.

